# Fyrisagnar Tilraun

um

# Litunar-giørd

## á Íslandi

bædi med útlenzkum og innlenzkum medølum,

ásamt

## Vidbæti um ymislegt

því og ødru vidvíkiandi.







Prentud í Kaupmannahøfn 1786,
hiá Jóhann Rúdólph Thiele.

DERES

KONGELIGE HÖIHED

KRON - PRINCESSE

# LOVISA AUGUSTA

HELLIGET.

*NAADIGSTE PRINCESSE!*

*Historien og de stadigste, i de seenere Tider igientagne, Jagttagelser bevidne, at* ISLAND, *en af de betydeligste Øer i Norden, er blevet forsömt, til alle Vedkommendes Skade, og det deels af indvortes deels udvortes Aarsager. Man har indseet nogle af Feilene,*

og søgt at raade Bød derpaa, ja heldig overvundet nogle. HANS MAJESTET KONGEN og HENDES MAJESTET DRONNINGEN have allernaadigst værdiget at gribe Vedkommende under Armene, hvilket har sat Liv og Mod i enhver veltænkende Patriot, for at være behielpelig i at faae de forfaldne Sager rettede og satte i Orden; thi naar Kundskab mangler, da mangler fast Alting. Det er altsaa, NAADIGSTE PRINCESSE! en vis Kundskabs Mangel, man søger at forebygge, ved at udgive denne liden FARVEBOG, lige-

saa-

saavelsom andre smaae Skrivter i den Henseende ere forfattede i Landets Sprog. Forfatteren har tænkt, at de islandske Fruentimre, paa hvis Skuldre den indvortes Huusholdning meest hviler, kraftigen vilde see sig opmuntrede til at öve alle huuslige Dyder, ved blot at see DERES KONGELIGE HÖIHED, EN UNG LOVISES Navn for paa denne Afhandling, hvorfor man i dybeste Underdanighed har vovet at zire den der med. Himmelens Gud give DERES KONGELIGE HÖIHED Naade, Magt, Styrke og Hiertelav, jo meer Alde-

ren modnes, til at tage Deel, ligesom DERES KONGELIGE HÖIHEDS ALLERHÖIESTE FORFÆDRE, i alt det, hvorved Guds, Kongens og Fædernelandets Ære og Gavn kan forfremmes! Hvornæst jeg i dybeste Underdanighed fordrister mig til at kalde mig

DERES
KONGELIGE HÖIHEDS

KIÖBENHAVN
den 25 Oct. 1785.

underdanigste Tiener

O. OLAVIUS

Kammersekretær, Kongel. Tolder og Consumtions Forvalter i Skagen.



# Formáli.

At vera illa til fara, rysinn og slitinn, edr óhreinn, þat eru liós merki annathvert til fátæktar edr óþrifnadar, edr og hverstveggia. Fátækdóminum vita allir at sialldan er svo miøg audvellt at hrynda af høndum; en hitt má lagfæra á þá leid, at opt megi lítit lagliga fara. Eigi er þat tilgángr minn, med því at rita þenna litla bækling, at hver einn smaladrengr, edr þeßháttar múgi skuli gánga litklædum búinn; en at Heidurs-fólk; af bænda-stett og ædri rød ætti skrautlig klædi, litud úr þeim tegundum, er í landinu

 vaxa,

vara, og nálægt því eingum kostnadi sæta, sem bæklíngrinn tilvísar híngat og þángat, þat þætti mer harla vænt um; og kæmiz slíkt til leidar vid íhugun og eptirbreytni Rits þessa, hygg eg þat mundi eigi med ollu ónýtt. Þeir, er lengi hafa stadit í hússtiórnar-standi, munu án efa med mer sanna, þat Indigós-litr sumr, af Donum keyptr, hefir stundum sætt nógu miklum kostnadi, og auk þess gefiz brygdull mieg, þegar á skylldi herda. Þarvid hafa kaupendr opt lidit skada, sem í morgu odru, sakir þess, megi eg rett tilmuna, at kaupmenn sumir eru vanir at vera kænari sonum lióssins, ef svo mætti at ordi komaz. Fyri þá sok hefir eg sagt kostu og lesti á Indigóinu, þannig sem mer er um slíkt kunnugt, og eg óskar at gódu halldi koma megi. Annars virdiz mer, at sá hinn raudi, græni og guli íslenzki litr mætti at miklu leiti,



leiti, þegar vel er medfarit, nægia til litunargiordar úti þar, svo at minna þyrfti enn fyrr at tilkaupa af Indigói, edr ødrum útlendum litar-tegundum. Þannig lita til dæmis Jótar raudt úr Mødrunni, ásamt fleirum ødrum jurtum, og Færeyskir úr Steinmosanum, líka og hverirtveggia gult úr jurtum, er vaxa í landinu, og þar úr vefa þeir sængur- og kodda-ver, brekon, ábreidur, nærføt, húfur, og margskonar annat, sem varla nøfnum tiáir at nefna, og fer þó næsta vel á øllu. Fyri sakir þessarar skynsamligu sparsemdar, eydiz eigi svo mikit af Indigóinu sem ella, en nytsemdin er þó hin sama. At lita úr kúa-þvagi, veit eg eingi dæmi til í Danavelldi; en fullkomliga væn er atferd sú, og hefir eg mørgumsinnum sannreynt, at daun sá, er tiedum raudum lit fylgir, er allt eins þægilegr, einkum siómønnum hærri og læg-

ri



ri ſtettar, ſem lyktin af Raudaróſs ſkinnvetlíngum á ſinn hátt er morgum; og kemr daun þeßi af sallt-tegundum þeim, ſem, at miklu leiti óſambodnar ødrum sallt-þvags tegundum, eru í kúa þvaginu. Hvert ár ættu menn annars at umbreyta, eigi ſkapnadi edr logun ullarvarníngſins; þvíat ſkapnadr manzins er nálægt því ætíd hinn sami; en helldr áſýnd, prióngiord og vefnadi þeßa varníngs, kaupmonnum til uppørfunar og eflíngar kaupſkaparins, ſem at miklu leiti bygdr er á fogrum umbreytíngum og þar af komanda margskonar ábata; en taxti ſettr óhvikull viñr og hefir unnit ſlig á morgum þiódum. En látum oß hverfa frá þeßu, og ræda helldr nockut um tiltektir mínar vid ritgiord þeßa. Af ollum þeim Íslendíngum, ſem eg þecki á lífi, edr hefi haft nockra fregn um, veit eg eingann þann, ſem upp úr ſer ritat gæti þat logmál, er

hms-



hinsum litum serílagi, og nálægt því allskonar litunar atferd med rettu til-heyrir; þvíat slíkr vísdómr er bygdr bædi á marghæfdri reynslu, og þaradauk á stadfostum chemískum reglum, er veita reynslunni þann styrkleika sem nægir. Nú er þá siálfsagt, at eg líka sem adrir hefi vanmegna verit, at reisa mer þenn-ann hurdarás um oxl, edr at hefia þessa ritgiord, án þess at neyta annara lærd-ra manna ritgiorda vid; þvíat eg gat eigi siálfr tilreynt at lita nockut, fyrrenn eg hafdi bú sett árit 1784, jafnvel þó eg hafi margt lesit og líka svo adgætt híngat og þángat, vidvíkiandi þessum starfa, sem fegurdar vegna hefir gengit mer í augu. Til at stydia mig vid, hef-ir eg þá hagnýtt mer þessar máttarstytt-ur, nefniliga: 1) Þá svo kolludu Huldstændige Fruentimmer Farve-bog, prentada í Kaupmannah. 1768. Nockut úr þessari bók, er mer virtiz eiga

vid



vid Island at svo komnu, hefir eg ordrett útlagt, en hlaupit yfir hitt, og umbreytt sumstadar dálitlu, til at minka kostnadinn og margfiollda umsvifanna, sem eg veit Landar minir eigu bágt vid at fialla um sem stendr. 2) Hefir eg vid fyrrsagda bók samanborit og hagnýtt mer, qver þat, er kallaz En dansk Farvebog, og prentat er í Kaupmannahöfn á sama ári sem hin. Nálægt allt þat, er ritat finzt í þeßum bæklingi, stendr í þeirri stóru Litunar-bók; er hann dáfalligr sumstadar, og hinn fyrsti, at minu viti, skrifadr á danska túngu af þeßhättar bókum. 3) Hefir eg nockrumsinnum í höndum haft *Joh. Lindners* Svenska Färge-Konst, sem er mikit vel ritin bók, at því leiti sem jurta litinn snertir. Og helld eg sannliga, at allar svenskar ritgiördir og breytingar-hættir, búskiörninni vidvikiandi, eigi betr vid Island, helldr enn nockurra annara þióda;

þvi-



þvíat edli náttúrunnar þar og her er svo miøg líkt hvert ødru; og fyri þá sök bæri oß, at safna øllu því er kyñum af Svíaríkis Vísdómi á vora túngu, og hagnýta sídan vel í allri praxi edr medferd. 4) Géng eg eigi ámóti því, at eg og hefir atgætt *Bomars* fráſagnir, þótt þær kæmu mer eigi at miklu halldi í þeßu. 5) Hefir eg og einnig litit í *Ludvigs* Lexicon, og mørg ønnur þeßkonar rit, er vid høndina vóru, og lagt allt þetta á metaſkál, fyrr enn eg tók til at rita, hverſu ſem ſídan vegnar ſkrágiord þeßari. 6) Las eg med athygli *Hellots* fyriſagnir, og red þaraf, at ſú en ſtærri litunarbók Dana, er út úr þeim tekin at meztu leiti, ſem vænt er; þvíat þecking manns þeß er hvartveggia bygd á Theoria og Praxi lángvaranligri. Og megum ver Islendíngar eigi láta oß um hug fara, at nockrir høfud-lærdómar gángi oß miklu lettari í greipar, enn þeir hafa Dønum geng-



gengit, sem bædi hafa haft meiri sømmi og betra tækifæri til allskonar lærdóms-frama enn ver. Et non ero longus, brevis esse studebo, og minniz eg þá þeß at lokum 7), at hvat eg reynt hefi siálfr, er reynt med athygli í heimahúsum mínum, og eptir því ritat í bæklínginum. Annars má eg þat at víſu medkenna, at mikit brestr á fullkomleik ritgiordar þeßarar at ýmsu leiti; en í svo vandhæfu efni tek eg mer serliga til forsvars og hughreystíngar, þat er allir Medkennendr Lærdómslista Felagsins ásamt mæla: Est qvòdam prodire tenus, si non datur ultra. Og mætti þá Letrgiørd þeßi á nockurn hátt líka og at notum koma Londum mínum, skyllda eg gánga upp vid spønn og stiku; óskandi at endíngu Fóstrjord vorri allrar þeirrar bleßunar, er himinn, jørd, siór og vøtn til eiga í eigu sinni!

Rithøfundrinn.



# I. Kapituli.
## Um Indigó-lit.

### §. 1.
### Um uppruna Indigósins.

Þá er eg var staddr úti á Íslandi, bádu Klerkar allir, eptir forlagi og áqvördun Dana Konúngs, at búinni predikun á þeßa leid: Bleßa þú bergverkin í Noregi, og s. fr. (*) Siálfságt er, at fyribeidsla þeßi var at ollum hluta ágætis-góð, ef almúgi

 skyn-

(*) Eigi er þat ásetníngr minn í þeßu, at hædaz at vanvitsku annara manna, af því at eg í minn úngdæmi vißa eigi betr enn adrir.



skyniat hefdi gérla, um hvat bedit var; en þeßu var eigi svo háttat; þvíat almenníngr ætladí, at þau umgétnu bergverk í bæninni mundu vera fioll eda hraun nockur, úr hverium at upp væri grafit Indigóit, og álitu þat þannig, sem annathvert nockurskonar stein- edr málm-tegund; og styrktiz meiníng sú ærit vid koparlit þann, sem stundum er á Indigóinu, er fiolldi fólks úti á Islandi kallar Stein, og hvar af audsært er hugarfar manna um þeßkonar abla. En svo at sáfródir gengit fái úr skugga um uppruna Indigósins, þá má med sannindum herma, at þat er hverki steinn edr málm-tegund nockur, helldr kémir af jurt einni, sem vex í Indíum og vídar annarstadar sudr um heima. Af Náttúru-spekingum kallaz jurt þeßi á látínska túngu Indigofera tinctoria, og er hálf alin á hæd, med þyckum blödum, grænum at lit, en blómstrin eru raudleit, og þegar er þeßi falla af, koma fræhús í stadinn fyrir. Eru þar í fræ-korn, at skopun sem baunir. Jurtin siálf er beisk nærta og blodin at því skapi.

## §. 2.

### Um tegundir Indigósins.

Indigósins tegundir eru ymiskonar, iafnvel þótt Indigó-jurta tegundirnar séu eigi fleiri enn fernslags, svo at eg um sinn viti, og

og eru þó eigi allar þær, er úr sé litat at jafnaði. Aðgreiníngin á Indigó-litnum kémr fyri þá sök at meztu leiti af þeim stöðum, hvar litrinn er tilbúinn, og tilbúníngi hans úr Indigó-jurtinni, en eigi af fiölda Indigó-tegundanna, sem áðr var fráskýrt. At sönnu eru nú margir Kaupmenn rángsleitnir næzta í kaupum og sölum, en nockrir hafa betra hugarfar, og greiða af hendi varníng góðann fyri samboðnar vörur, eðr skotpeníng þá, sé þeßara eigi kostr. Á flestöllum varníngi er og mismunr nockr, og líka svo á Indigóinu, en öllu má mismuna. Nockrum sinnum hefir eg viðstaddr verit úti á Íslandi, þá er varníngs-menn hafa látit af hendi rakna fyri fullann eyri Java-blátt í staðinn Indigós; en Java-blátt er hollenzkt svikit Indigó. Á sama hátt hafa sumir breytt með platt Indigó, sem er ferhyrnt og þunnt at lögun, og bítr hvergi á nögl, svo at við megi standa. Þetta er einninn svikit Indigó, og sá eg þó lóðit selt fyri 12 fiska þat ár, er fáu skipin siglðu upp Ísland; enda var þá lítit til af öllum varníngi, og sættu menn þá þvï tækifæri, sem víðazt í heimi er vandi til. Indigó þat, sem í er aska, sandr, eðr mölldu og steinum blandit, er fánýtr varníngr, og selz þó opt til sáfróðs almúga dýrum dómum. Hit sama er at segia um eptirgiort Indigó úr berg-álúni, rauðu víni, ediki og svo fr.



med hveriu margir hafa verit á tálar dregnir. En svo at eg víki til hinna gódu tegunda Indigósins, þá teliaz á medal þeirra a) Cirkest-Indigó, sem óhreckvísir Kaupmenn á bodstólum hafa; b) Kastagne-Indigó; c) Donningo- og Jamaica-Indigó; og d) Gvatimalo-Indigó; og eru allar þesskonar og fleiri Indigó-tegundir nefndar eptir stodum þeim og eyium í Indíunum, sem litrinn er tilbúinn í; og hallda flestir, at Gvatimalo-Indigóit taki ollum odrum Indigótegundum fram. Til Danmerkur flytz líka svo Indigó frá Englandi, Fránkaríki, Portugal, Hollandi og Spán; en þessar þiódir taka þat med sér, til þess at ábataz á, frá bádum Indíunum.

## §. 3.

### Um kénnimerki á gódu Indigói.

Kénimerki á gódu Indigói, at sogn og reynslu lærdra og leikra manna, eru þessi eptirfylgiandi: 1) At Indigóit hverki sé ofr blautt né ofr hart átektum; þvíat sé þat miog hart, þá er eigi orvænt um, at einhverskonar gruggi sé blandit, og sé þat of-blautt, þá er litrinn helldr drhgindalítill, og bítr auk þess seinna á enn ella. 2) Sé því brugdit at elldi, og kvikni þegar í, þá er litriñ ósvikiñ. 3) Skal gódr steinn brotna án abls og hardra átekta.

4) Alít-

4) Allitaz flatgiorvir molar, og þunnir í medallagi, betri enn þeir hvottóttu. 5) Indigó svartblátt at áshndum hit ytra, og þar hlá lifraudt í, medr lióma nockrum, en hit innra skærara miklu, og þat svo, at silfrlit ábregdi, þat kalla menn at vafalaust megi vera gódrar tegundar; og líti þat út, rydit um nogl sér, sem raudleitt væri, allt at einu sem Gvatimalo-Indigóit. 6) Bregdi eyrlit á Indigó hit innra, þá geugr þat næzt hinu, og er gillt í allar skulldir. 7) Gódrar tegundar Indigó flýtr ávallt á vatni ofan, en sockr því dýpra, því fleiri óklárindi sem í því eru. Hvítar rákir finnaz varla nockru sinni í gódu Indigói, enn þótt úr því takiz sæmiliga, sé vel medfarit.

## §. 4.

### Um svikit Indigó.

Til at svíkia Indigó, hefir eg bædi heyrt og lesit, at brúkiz tvennslags atferd sérílagi; og er sú hin fyzta þar í innifalin: at þegar þeir, er tilbúa Indigó, hræra annathvert ofmiog edr oflitit í Indigóinu edr Indigó-leginum, þá verdr Indigóit eigi til hæfis. Stundum skédr þetta af misgáningi, en stundum eigi. Þat er kaupanda þó hit sama; þvíat í hvoru-tveggiu kríngumstædum er hann eins tióni og skada undirorpinn. En þegar illa er íhrært,

verdr Indigóit miøg svartleitt áſhndum, og þyckt edr þúngt framar veniu. Hin onnur atferd til at ſvikia Indigó hefir ſinn uppruna þar af, at þeir, er hræra í Indigó-leginum, meinga þar ſamanvid añathvert molldu, einskonar ſvørtum ſandi edr øſku. Til þeß at vita, hvert ſvo ſé áſtatt edr eigi, þá tekr madr 1) lítinn mola af Indigói, lætr í vatn og hrærir í; ſé Indigóit óſvikit, ſkilz þat ad med øllu, og ſamblandaz med vatninu, en ellegar ſøckr gruggit at botni. 2) Sé Indigós-moli laginn á glædur, þá brennr hann upp alldúngis, ſé Indigóit óſvikit, en eigi ella.

## §. 5.

## Um tilbúníng Indigóſins.

Indigó kémr af jurtinni Indigofera, er Spanſkir kalla Anil, og ſkáſkírt er at undanfornu (§. 1.). Þegar tími er til, og jurtin er ordin fullvaxta, ſkéra menn jurtina upp, leggia nidr í kér fullt af vatni, og fergia nidr med grióti. Í þeßu vatni liggr jurtin í bleyti 3 edr 4 daga, og þá hræra menn vel um í kérinu med ſtórum ſtaut edr ſtiaka; taka ſídann legginn upp úr, hræra í at nýiu, og verda þá blødin og vatnit at maukaſtellu (*) edr

(*) Ordit Maukaſtella er algengit á Veſtfiørdum, og þýdir ſambland nockurra edr margra hluta ſ: máſke

edr hrærigraut einum. Nú sockr þat hit þyckva til botns eptir nockra hríd, og þá hella menn vatninu af; en þat hit þyckva verdr eptir, hleypr saman í hellur, svosem lím, og þetta er Indigóit í siálfu sér; er þat svo skorit upp eptir villd manna, og sett út til þerris. Sumir brúka þrefallda adferd á tilbúníngi Indigósins, sem ritat finzt vída í bókum, en hér er oft lángt, og jafnframt einskonar óþarfi, frá at skýra.

## §. 6.

## Um adgreiníng og mismun á því Indigói, sem málat er med, og litat er úr.

Þat er hreinn og beinn sannleikr, at med allskonar Indigói má at sonnu mála, en eigi lita úr, svo at hverttveggia á allañ hátt fari vel at stofnum. Indigó þat, sem lita má úr at gagni, er helldr til dýrkeypt til þess at mála med, og þannig er Gvatimalo-Indigóinu varit; enda skortir þat og styrkleik allañ, nema betri adstodar nióti í framfærslu liómandi málverks ímyndа. Í málara Indigóinu þarámóti er næsta lítill dugr til þess at lita úr, en þat kostar minna enn hitt, þarf lítillar hiálpar vidr af odrum tegundum, og fer þó vel á med ollu, þegar búit



másske at Chaos mætti þá heita maukastella; en hvar stella kemr af, væri mer fýsn á at vita.

er málverkit. Þannig er, til dæmis, plátta Indigóinu varit. Kastagne-Indigó mißir hinn mezta hluta af styrkleika sínum, medr olíu blandat, og sett gagnvart sólu; en vatn á betr vid lit þenna, hvíat þá fer betr á málverkinu. Þat vita menn og gérla, at úr Kastagne-Indigói tekzt bædi silki, ull, lín og bómull yfrit vel.

## §. 7.

## Um almennann undirbúníng á því er lita skal.

Þat er án efa óbilugt, at jafnvel þó Indigó edr hverr annar litr eda litar-tegund, er til má nefna, sé ollum kostum búin, þá er grangæfilega athugandi: a) at litunar ílátin séu vandliga þvegin ádr enn farit er at lita; og hit sama er b) at segia um ull, vidur edr hvat annat, sem mañ lita vilia. Ull má liggia óþvegin at ósekiu til litunar-tímans, ámedan óklárindi af fénu eru vid hana ridin; þvíat skridqvikindi væmir mieg vid þeirri situ. Því betr sem ullin er þvegin, því betr tekzt úr litnum. Flióti ullin ofaná í litunar ílátunum, er þat lióst merki til, at þá er hún eigi þvegin sem hæfir, og hit sama er at segia um hvat annat þessu efni vidvíkiandi. Litunar ílát skulu og ærit vandliga þvegin, sem ádr er umgétit, og verda þau

alld-

alldreigi ofmiog hreiu gior, þvíatella er mik-
it í húsi (*). c) Miðr ærit mikit á vatn-
inu í allri þeßkonar athöfn. Því neitar ein-
gi, sem vit á hefir, at vatn er vatn; en á
vatni og vatni er næztum því svo mikill munr,
sem á bókstöfunum A og B. Nú vil eg
nefna votnin eðr vatna-tegundirnar, at svo
miklu leiti sem þeßu efni viðvíkr, og kalla
þær A, B, C, og s. fr.; en jafnframt því
drepa lítit á hverja tegund, og taka til 1) á
vatninu A. Þat er þeßkonar vatn, sem er í



(*) Þetta aðgæta næztum því allar þióðir um öll
ílát, en einkanliga um miólkur og litunar ílát;
og væri óskandi, at þeßi þrifnaðr færi dagvax-
andi fram úti á Íslandi. Annars er þat um-
merkia-verdt, at Frackar þvo ullu sína á sama
hátt næztum því, sem enn nú giora Íslend-
íngar, þat er at skilia, úr stækri keitu og vatni;
og tel eg ásamt öðru aðgætslu hinna fyrri Ís-
lendínga þetta miog til gylldis; þvíat þeßa
breytni munu þeir, án efa numit hafa forðum
af Frockum. En mismunrinn á atferðinni er
sá, at Frackar taka einn hluta keitu, og þriár
deildir vatz, heita hverttveggia saman, svo at
höndin þoli vel í blandinu, og þvo þá strax
ullina þar í; og nær hún er þvegin sem byr-
iar, taka þeir laup eðr korf eina, láta þar í
ullina, svo at eigi spilliz, en eigi lausa í læk-
iarbununa, sem margir úti á Íslandi giora í
ullarþvottinum; þar um fer þá rennandi vatn,
og þyckir vel þvegit, ef hvölr allr gengr úr ull-
inni, og vatninu bregðr eigi lengr.

ám og lækium. Því hreinna og tærara þeß=háttar vatn er, því betr ser litrinn med sig. Þar af er audsært, at þá er hlákur og vot=vidri gánga, er áa= og lækia=vatn eigi hent=ugt til litunargiordar, fyri gruggs og saur=inda sakir, en tekr ollu odru vatni fram ella, og hit sama er at segia um uppsprettu=vatn=it. 2) Vatnit B edr pollavatn. Þat er meingat med margskonar gruggi, og hæfir hvergi greindum starfa. 3) Vatnit C edr brunn=vatn, er jafnan súlt, og fyri þá sok helldr óhæfilegt til þeß at lita í. 4) Vatn=it D, hvarmed eg skil sióblending; og er því varla betr farit enn hinum áminztu vatna=tegundum. En þar af má skilia sióblending frá odrum almennum vatz=tegundum, at baunir sodna fyrr í hreinu vatni enn í sió=blendingi, sem er Victríli blandinn; og megu menn þar fyrir fullann hug áleggia, at var=az sió=blenduna, sem velldr því, at litrinn verdr svartr, í stadinn fyrir at hann skyldi vera med odrum hætti. d) Allr litr útheimt=ir álún nema svartr, og er þat þá mátuliga ílátit, þegar 4 lód af því svara hverri mork litar. Nú er þeßu svo varit sem mællt er, og megu þá konur á Íslandi giorla skynia, af hveriu einkanliga þat komi, at ecki tekzt sem hæfa þykir úr Indigói, hversu ágætt sem er, edr úr raudu tré, né úr nockrum odrum lit, at fortunni einúngis og svo odrum svort=

um

um lit undantekunum, af því at þar í er gnóglig styra, er hina litina skortir. e) Skal litunar-borkr allr tekinn at vordøgum með fullu túngli; þar um kémr ollum saman, og má verkun sú qveikiaz af einhveriu túnglsins eðli, sem vandhæst er á at hitta, en stoðug reynsla þó hefir aðkomiz. og f) Í sama máta allskonar litunar-grøs, áðr eñ blómstr-bær eru, sem vel er skilianligt, þvíat um þat mund er vøkvi allr grasa og jurta næztum því óúþotinn. g) Þegar litat er með þvagi, má hvergi qvenna-þvag brúkaz, helldr karla einna, sem raun hefir vitni gefit. h) Mega eigi qvennmenn, á meðan stendr á klæðafollum þeirra, gánga at litunar-storfum; þvíat þá tekzt litrinn miðr enn ella; og varaz menn því, og svo á Jótlandi, hvar eg hefir staddr verit, náviſt qvenna um þat mund, og þar til at lokit er greindum athøfnum. Um þetta ber ollum fiollda saman, bæði í suðr- og norðr-álfu heimsins, 2c.; en hver orsok þar sé til í náttúrunnar eðli, þori eg eigi um siñ, með fullvißu nockurri, at ákveða. i) Er fyrr umrætt, hveria nytsemd hafa megi af álúni í litunar-giorðum; en þeß má þó jafnan gæta, at álúnit sé úthrært í vatni eðr leyst, áðr eñ litrinn sé með því blandaðr, og skal oll sú froða, sem kémr ofaná álúns-vatnit þegar giorla affleytaz. k) Þegar lita skal með jafna eðr oðrum litunar-grøsum,

þá



þá hæfir allrabezt, at seyda grøsin fyrst í vatninu. og sía þau því næzt frá seydinu, ádr enn lita sé farit, og verdr þá litriñ eigi svo skioldóttr sem ella. l) Þat seydi edr logr, sem eingin skán ásestiz, er megnlaus; en svo lengi at skán nockur bráir á seydinu ofan, þá er vafalaust nockr dugr í leginum. m) Vidur teknar upp úr lit, til dæmis, má eigi strax á endum upphengia til þerris; þvíat þá er hætt vid, at nedri endinn á vidunni verdi deckri helldr enn sá, er upp horfir. Eñ eru at. víſa margskonar fleiri reglur, vidvíkiandi litunar-störfum, er frá mætti skýra í bæklíngi þeßum; en þar eg ætla, at almenníngi nægia muni þat, sem hér at ofan er umrædt, þá megu frekari skýríngar-greinir þar um bída hentugra tækifæris.

## §. 8.

## Um Indigó-litinn siálfann, edr litunar atferd medr Indigói.

Þat er því verr og midr satt, at eigi megna Íslendíngar enn sem stendr, svosem adrar þiódir efnabetri, at hagnýta sér af Pastel, Veydi edr Vau (um hverra nytsemd og medferd Hra. Hellot allskilmerkiliga ritat hefir) til betri fromunar Indigó-litarins, enn ella, og fyri þá sok læt eg hiálída, at greina þar frá í þeßu; en vil einúngis géta hins,

er

er litlum kostnadi sætir, og þó má almenníngi at gódu halldi koma. Og tel eg þá 1) at úr Indigói má lita á fersalldann hátt, og þat annathvert med kolldu vatni, med volgu vatni, edr þvagi einu, edr þvagi og vatni ásamt. Kallda vatnit á bezt vid lín og bómullar-vefnad, volga vatnit bezt vid ull og silki, en eintómis þvag edr þvagblendíngr vid ull, vadmál, prjónles og annat þeßkonar. 2) Skuli lita í kolldu vatni og Indigói einu, þá hlýdir, at logrinn sé fyrst blandadr med litilfiorligu af pottosku; er at sonnu flytz eigi til lanzins, þat eg tilveit, en er þó hægt at fá fyri umstilli og framqvæmd kaupmanna. 3) Vili menn lita úr volgum Indigó-log, þá er þar til hentugt hverttveggia þvag og vatn; enda ser þá betr á litnum, ef tegund af brendum vínsteini er meingat vid litunar-loginn, sé hann af vatni einu; en álúni og óbrendum vínsteini, ef þvag eitt er vidhaft. Vínsteininn má fá hiá Donum, og er hann eigi dýr.

## §. 9.

### Um enn frekari atgæzlu og gaumgæfni í tédum starfa.

Uti á Íslandi tekr almenníngr Indigóit allt eins og þat kémr úr kaupstadnum, og lætr þat annathvert ómulit ofan í litunar-klátin edr

edr í litinn poka, og þvættar úr; en í ødrum londum varaz menn þeßa atferd, sakir þeß at því lengr sem stendr á at lita, því hættara er vid, at hvat helzt þat, er lita skal, verdi brondótt edr ójafnt á einhvern hátt, þegar upp úr er tekit. Þeßvegna er miklu betra, at hræra fyrst Indigóit sundr í kolldu vatni, og veida svo ofan af vatninu oll óklárindi, sem ásetiaz, þvíat þau nota eigi til þeß at lita úr; en því næzt taka Indigó þat, er liggr á botninum, láta í járn-mortér edr pott, og steyta smátt sidan. Skal þetta ítrekat þrísvarsinnum hvert eptir annat, og er þá Indigóinu varit sem vera byriar; en í stóru molunum eru eingi drhgindi, sem almúgi helldr, og miklu sídr í því, at lita opt, og litit at hveriu sinni. En nú er at ræda um siálfa litunar atferdina. Ef Islendíngar væru svo fagurt efnum búnir, sem adrar þiódir, þá mundi hægt veita, at skyra frá hmiskonar medferdum útlendra manna, fósturjord vorri ærit nytsamligum; en þeßu er því midr eigi um sinn at heilsa. I stuttu máli skal þó a) svo ummællt, at þegar konur taka sér fyri hendur at lita nockut toluvert í einu, svo sem til dæmis úr 4 morkum Indigós, þá heitir madr fyrst í eyrkatli hér um 2 fiórdúngs-fotur af táhreinu vatni, med 4 morkum af gódri pottosku, er hleypir Indigóinu inn í likinn, 4 lódum af þeirri svo kolludu

Krapp-

Krapprót (Radix rubiæ tinctorum) og hnefa fullum af hveiti=sálldri (er Danir heitá Hve=de=Kliid). Sálldr þetta kostar litit, og velldr þó miklu góðu, þegar svo er ástatt. Allar fyrrgreindar tegundir skal annars sióða i vatninu, hér um hálft stundarkorn; og at því búnu, skal ollu afhella i mátuligt kér=alld, og hræra þá i sem verdr. Taka því næst seydit edr loginn, og hella honum at nýu i kétilinn, blondudum medr 2 pundum Indigós, á þann hátt mulldum sem fyrrum er umgétit; hræra sídan strax i katlinum, og leggia glædur neckrar umhverfis hann, tvisvarsinnum hvern dag i 3 daga, og hræra líka svo tveimsinnum i hvern dag. Sé þá seydit mátuliga heitt, og hafi verit þat dag hvern at forngylldu, kémr nýlitut skán ofaná loginn, med sprúngum á hér og þar, og ser þá vel at stofnum. En eingu at sidr skal þó hinn fiórda dag elldr laginn undir kétilinn, og þó svo, at hægt áberi miog; verdr þá skánin þyckvari, og þegar vel er íhrært, fellr blá froda ofaná, en logrinn verdr sem dockgrænn ásýndum; og er þá timi til at fylla kétilinn á barma medr hér um 10 pottum af heitu vatni, og þar i sodnum tveimur morkum af pottosku, 1 lódi af fyrrgreindri krapprót, og hnefa fullum hveiti=sálldurs. Skal þá vel hræra i ollu, og er þá logrinn vandadr sem byriar. b) Er litunar logr med

kolldu

folldu þvagi tilbúinn á þenna hátt. Tak, til-dæmis, 4 pund af smá-steyttu Indigói og 5 merkur ediks, lát þat standa 2 dægr í volgri ofku, og hrær smámsaman vel í ílátinu. Þegar nú hér til er lagin 1 mörk af krapprót, og aptr vel íhrært með þvöru edr staut, þá er bezt at hella ollusaman í kérald edr lítinn sá, er í hefir ádr safnat verit svo miklu þvagi, at sætir 5 pundsotum, og gylldir einu, hvert keita er edr eigi. Svo skal lögrinn standa í viku alla og tvo dægr, en þó med þeim skilmálum, at hrært sé í leginum bædi qvelld og morgna hversdagliga; enda er þá lögrinn vel tilbúinn, þegar grænku bregdr ofaná, og blám blodrum skýtr upp þess á millum, nær í er hrært. Af þessu má gloggva vísbending hafa, hve mikit vidþurfi af hverri tegund, ennþótt miklu minna sé íráðiz, enn at framanverdu er umgétit; og telzt þvag-blendíngi þessum, framar ödrum, þat til gylldis, at úr honum má lita svo lengi, sem nockur tegund siezt þar í af Indigói, þó med því móti, at í sé hrært fám stundum ádr enn tekit er til at lita. Annars útheimtir hvert pund Indigós freka mörk ediks, 4 lód af krapprótinni, og 35 edr jafnvel 40 potta þvags. Þat þyckir sæta medalhófi. Ur heitu þvagi og Indigói tekzt einnig litrinn ýkrit vel, en kostar jafnframt því meir, og útheimtir líka svo fleiri umsvif,

og

og náqvæmari atgæzlu, enn þegar litat er á fyrrsagdann hátt. At lita úti í fióſum, ſem vandi er til á Islandi, þegar þvag er brúkat, og þar eru gnægtir hita af naupenings-inum á vetrardag, á at ſönnu fullvel vid Indigó-litinn; en alldregi verdr ſvo heitt í nockru fióſi, at megnum ellds-hita ſæti, og fyri þá ſok tekzt litrinn hverki ſvo fliótt né vel þar, ſem væri hann á elld færdr, og látinn ſióda at gagni; hvar af ráda má, at froſt og kulldi er tédri litunar-giord ſidr eñ eigi ſambodinn. Því fliótar ſem litrinn er upp tekinn úr ílátunum og lagligar ſundr-greiddr, því betr og jafnar ſer á litnum ſíd-an. c) Skal eñ ſvo tillagit, ef verda mætti almúgafólki til frekari leidarvíſis: 1) at þeg-ar búit er at vinda litinn upp úr táhreinu vatni, þá ſkal honum dýfa ſvo opt og ſvo diúpt nidr í litunar-ílátin, ſem at hæfa þyk-ir, þat er at ſkilia, þannig, ſem menn vilia at litrinn vera ſkuli liós- edr dockblár til. Þvi dýpra litnum er í dýpt, því deckri verdr hann, af því at Indigóit ſetz jafnan á botn-inn, hverſu vel ſem í er hrært. 2.) Vardar miklu, at litnum ſé brugdit uppúr þeß ámill-um, ſem mællt er, og látinn hvort ſinn upp at vidraz, til þeß at allri grænku afbráir; enda komaz menn þá at raun um, hvert dockt ſé nóg edr eigi. 3) Er ærit nytſam-ligt, at allr liósblár litr ſé þveginn upp úr á

 edr

edr læklar-vatni; en sápu-vatn á bezt við dockbláa litinn, og þar á eptir lækiar-vatnit; þvíat þá gengr betr litunargiörðinni, og kémr fagr blær á hvervetna.

§. 10.

### Hve lita megi blátt úr bláberium.

Jafnvel þótt auðmenn útlendis siallðan láti lita úr bláberia-legi, þá ber þó morgum smælinginum á lanzbygðinni forkunn á, at hagnýta sér téðann jarðar-ávöxt, og þat á þessa leið. Þeir taka, til dæmis, 2 merkur bláberia-lagar, hér um hálft lóð af spansgrænu, og eigi miklúngi minna, edr jafnvel meira af álúni, en ásamt því staup eitt fleytifullt af ediki; láta þetta sióða um hríð; leggia síðan litunar-efnit ofaní loginn, og liggr þat þar svo lengi varða þyckir. Eigi litrinn at verða lióöblár, þá þarf eigi hins græna ryðs við. A líkann hátt virðiz at lita megi úr blágresi og krækiberia-legi. Bláberia-litinn hefir eg séð og hondum leikit, og þyckir mér vel og skrautliga á honum fara.



H. Kap.

# II. Kap.

## Um at lita raudt.

§. 1.

Almennar reglur vidvíkiandi þessu starfi.

Í þeim enum fyrsta Kap. §. 7. er fráskýrt um medferd og undirbúning á allskonar tegundum, sem ætladar eru til lit giordar, svo sem þvottum, og annat þeßháttar, og á þat líka svo heima hiá rauda litnum; en auk þeß er atgætandi: 1) At kúa þvag sé tekit at Dagmálum eda fyrr, sén gridkonur fyrr á fótum, og svo megi vidlíngaz, af því at þvagit er þá slíkum kostum búit sem hæfir, og gnægd af sallti í nætur-þvaginu, sem eigi ella. 2) Þyckir bezt hlýda, at litunar-efni oll liggi í leginum áqvardada stund, en þeim sé eigi dýft í loginn, sem ádr er greint um bláa litinn. 3) Uheimtir allr raudr litr álún, edr jafnvægi þeß af odrum tegundum, svosem til dæmis vínsteini, þat er þeßkonar súru sallti, er setz á borninn á hverskonar vín-ílátum, þá er geymd hafa verit um nock-

ra hríd, og vardar litlum kostnadi; og lok-sins 4) skal gæta, at sérhvert litunar-efni sé fyrst þvegit í heitu álúns- edr vinsteins-vatni; þvíat þá vinnr litrinn miklu betr á alls-konar tægi enn ella.

§. 2.

Um lita nøfnin.

Tegundir raudu litanna eru at vísu margs-konar, og á medal þeirra sumar, er miklum verdaurum sæta, en sumar eigi svo miog. Eg vil geta fyrst hiña dýru, ségofgum moñ-um til nockurrar íhugunar, og þar næst hiña ódýru, er mig væntir, at almúga megi at gódu halldi koma. Dýru litirnir eru fern-slags, nefniliga: a) Kermes; þat eru lítil raud korn med ormum innaní, sem vaxa sumstadar á eikarblodum og sumstadar á ødr-um triám vída hvar utanlanz, en þó einkum þar, sem hiti er gnógr. Þessi korn eru til-búin á margskonar hátt, sem hér er ofláugt upp at telia; en því er Skarlats-raudt svo dýrt, at litr sá tilbúinn er næstum því gulli vægr. b) Cochenille, er og nockurskonar skridqvikindi, litilsiorligt at voxtum, en þó dáfrídt áſýndum, er Tyrkiar kalla Cormeth. Qvikindi þetta hefir einkum og allra-hellst bústad sinn í Indíum, og finzt á einskonar fikiu-blodum edr fikiu-triám, er þar vaxa.

Raudt

Raudr vokvi, preßadr úr tèdum qvikinda tegundum, er þat sem litr þeßi er afgior, og þar úr litat há-raudt nú um stundir, og gengr litr sá næzt skarlatsraudum lit. Hvat verdlagi og mikilleik Cochenille-litarins vidvíkr, þá er meining manna, at frá Indíum flytiz árliga til nordrálfunar hér um 880000 pund, sem metin eru fyri 7410000 hollenzk gyllini. c) Karmosín er tilbúinn litr af Cochenillum, en deckri helldr enn há-raudr, þvíat þar í er meingat ødrum tegundum, er sídar mun fráskírt. d) Krapprót sú er fyrr er umgétit í 1. Kap. §. 9. En nú er at ræda um hinar ódýrari litar-tegundir, og eru þær þá: 1) Urte orseille, er einskonar mosi, á Látínu kalladr Lichen græcus. 2) Brasiliu-tré; þat kallaz svo af því, at Brasilia í enum sydri Vestindíum er trésins hellzti bústadr. Fernambuck er tegund ein af Brasiliu-treinu, og er þat miklu betra helldr enn hitt, enda kostar þat og þridiúngi meir optastnær. Hveritveggia hefir eg vitat flytiaz bestillt út til Íslanz. Brasiliu-tré og líka einúngis Fernambuck er bædi raudt, mosalitat, blátt og gult; og sakir þeß mega konur á Íslandi bestilla hverskonar tegund þar af, sem vid þyckir þurfa, og kallaz þá tréit nær rifit er, til dæmis, rød Spaan, blaae Spaan, guul Spaan, og svo framv.; en spænir af Fernambuck-trénu takaz hinum mik-

 it

it fram, sem áðr er umrædt. Brasiliu-tré-it er svo stórt sem lítit greni-tré, og hefir eg á Jótlanz-Skaga í hondum haft þeßkonar eitt, en eigi er þat miog frídt áſýndum. 3) Coccos; þat er ſkriðqvikindi, eigi stærra en frækorn, sem finzt hér og hvar í enum Pólſku londum. 4) Jurtirnar Galium verum og boreale; og 5) Herba Paris.

## §. 3.

## Um litunar atferd medr Cochenillum.

At lita á þann hátt sem Hellot, edr adrir þvíumlíkir meistarar hafa gefit vísbending um, úr Cochenillunum, mun þyckia ærit vandasamt, og þar hiá sæta meirum kostnadi og fyrirhøfn, helldr enn jafnvel ríkismenn á Íslandi géti vidstadit um sinn, þat er at ſkilia til heimilis nytsemdar einúngis, og þannveg almúgi miklu sidr; en á Fabríkunni í Reykiavík á þeßkonar litunar-atferd heima. Fyri því læt eg hiálída, at ræda þar um sem stendr; en gét hins, er eg siálfr reynt hefir, og ætla at bædi ríkum og fátækum muni vel gégna; og fór eg þá þannveg at stofnum. a) Til at lita há-raudt úr Cochenillum, tók eg fyrſt ullar-vidu hvíta, er vóg 2 merkur, og vatt hana vel upp úr sápuvatni, og sídan úr tá-breinu vatni á eptir; svo at vatninu brá eigi vid seinazt, er vidan var undin at fullu;

heng-

hengda eg hana svo upp til þerrís. Þarnæst tók eg eitt gler-pelaglas, og lét þar í hálft lóð af engelskum tinspónum, hellti þar ofaní vart 2 lóðum af ósvikinu skilvatni, (á Donsku Skeevand), hvígt þar á ríðr þrauta-mikit. Þaut þá tinit og skilvatnit upp í ol-staupinu, er eg byrgt hafða ofan sem vera á, svo at staupit varð fullt á barma og glóandi. Hellti eg þá smámsaman síðan kolldu vatni í staupit, til þess at sefa ólguna, og lét svobúit standa, lióðabundit í eitt dægr; en á meðan þessu fór fram, steytta eg í morteri 2⅛ lóðs af Cocheníllunum svo smátt sem hveiti, hræða litit um í vatni meðr staut, og lét svo allt saman í látúns-ketil, at stærð allvel samboðinn viðunni, og var hann fullr af heitu vatni. Nú setta eg ketilinn uppá hlœður, og hrærða vel með þvörunni í litar-leginum, til þess at krauma tók aptr, en greip viðurnar, nú 4 at tolu, [sem er mátulig deild, úr 2 mörkum ullar eðr ullarspuna], greidda þær sundr, og lét allar samt á endann niðr í ketilinn, dýfði þeim svo, og hrærði með þvörunni í katlinum, og skaut hlemmi á ofan um hríð; hrærða þá í enn at nýu nockrum sinnum, þar til mér sýndiz, at vel-litat værj. En þá hefir logr þessi fyrst misst máttar síns, er hann bleikr verðr ásýndum, og silfr-blæ bregðr á hann. Svo lengi lét eg litinn sióða, sem mællt er; tók þá viðurnar uppúr, og

vatt ecki; en skoladi þær einúngis í kölldu vatni, og hengdi út til þerris, þó eigi þar er sól nádi til. Á sama hátt ætlar eg at lita megi ull, prión, vadmál og sérhvat ann-at, sæmiliga vel skarlats- edr há-raudt. Sé skilvatnit ofmikit í umgiördinni, þá ert þat litinn framar enn vera byriar; en sé þat of-litit, þá verdr litrinn eigi svo fagrbúinn sem ella. Sé brúkadr járnpottr til þeßa starfa, fer á somu leid, og sé skilvatnit svikit, allt at einu; en þat er traudliga svikit, fari reykr upp úr pytlunni, þegar tappi er úr tekinn. Annars gaf eg fyrir 2½ lód af Cochenillum 2 mk og 4 ß., fyri skilvatnit 8 ß. og 4 ß. fyri tinit, er eg litadi vidurnar í, sem ádr er sagt, er stódu 2 merkur. Hvar af ráda má, at géti madr siálfr litat, svo at lagliga fari, þá er þat ábati mikill; þvíat varla fæst pundit af þeßkonar tægi litat í Kaup-mannahöfn fyri minna enn vættar virdi; ann-arstadar í litlu kaupstödunum okar eigi úr, at þat kosti beinhardann ríkisdal. At lykt-um skal því hér vidbætt, at sé litadr í lát-úns- edr eyr-kotlum há-raudr litr, þá mega þeir fyrst annathvert spegilfagrir gioraz, edr tinadir vera at innanverdu; og gégnir þat líkindum ollum, þvíat tinbúnadr, er bezt hæfir starfa þeßum, er helldr dýrr, einkum fátæklings-fólki.

§. 4.

## §. 4.
## Um at lita Karmósín-raudt, edr døck-raudt.

At lita dock-raudt er eigi svo mikill vandi, sem at lita há-raudt, en fyrihofnin er þó nóckru meiri. Eg litadi siálfr til reynslu 4 vidur dockraudar, er vógu 2 merkur, á þenna hátt: 1) Tók eg áminztar ullarvidur, skialla-hvítar, og fór med alla leid sem enar há-raudu. 2) Giorda eg látúns-kétilinn tá-hrein-ann, med volgri einmyriadri torfosku og vat-ni. 3) Lét eg kallt vatn í kétilinn, og setta á hlódir upp; tók þá til at krauma. en á medan hafda eg 4) steytt yfrit smátt 4 lód álúns, og eins mikit af vínsteini, og lét þat síga hægt og hægt ofaní kétilinn, og hrærda sídan í med þvorunni. Því næst 5) tók eg ullarvidurnar, greidda þær vel í sundr, og færda þær ofan í loginn med athygli, svo at jafnvotar yrdu allavega; þvíat þar á rídr miog, eigi litar-giordin vel fram at fara. Nú hrærda eg 6) í katlinum at nýu, og þat at odruhverju, og lét sióda hægt og hægt eina stund dags; en setti sídan kétilinn ofan, flýtti mér og skoladi vidurnar upp úr kolldu vatni, lét vatnit síga úr um hríd, en vatt hverki né þerradi, svo at vidurnar skylldu eigi missa álúnsins. 7) Fór eg aptr til og fægda kétilinn hvervetna at innanverdu, svo

at vel þókti hlíta, fyllti hann kláru vatni, og setti svo á hlódirnar; giordiz þá vatnit at vormu spori nockru meirr énn spenvolgt; hafda eg þá mulit svo smátt sem hveiti 4 lód vínsteins, og þeßi lét eg í kétilinn, ásamt 2 lódum af Cocheniillum steyttum, sem fyrr er sagt, og hrærdum sundr í vatni. Hrærda eg þá aptr í katlinum idugliga, svo at litrinn mætti eigi at botni falla, og tók því næzt vidurnar, og særda, med sömu varúd sem ádr er umgétit, nidr í löginn. Sáud svo þetta í hægdum hálfa adra stund dags, og hrærdi eg jafnan vel í, medan þeßu fór fram. Nú dróg eg þá 8) at lyktum vidurnar uppúr seydinu, skoladi þær í táhreinu kolldu vatni, en vatt eigi, og hengdi sídan út til þerris, sumar andspænis, en sumar undan sólu, og brá litnum hvergi vid. Taki madr hálfu lódi minna af Cocheniillunum, verdr litrinn liósari; og hefir eg þannig smásmugliga skráskirt, hversu mér tiltókzt, og ásiáendum líkadi allvel. Annars kostadi þetta pund at lita einn sléttanndal, fyri utan ómaksiaunin; en fæzt varla litat af meisturum fyri minna énn 1 ríkisdal edr 7 mk. gángsilfurs; og er því betra til dagligrar brúkunar, at menn liti siálfir í heima-húsum þat er varda þyckir.

§. 5.

§. 5.

### Um þat, hve lita megi úr Krapp-rótinni.

Krap, edr Krapp, ver bædi í Sudr-, Nordr- og Vestr-álfu heimsins vída hvar, og líka svo í Danavelldi, en rótin ein er þat, sem raudt má úrlita. Á gædum rótanna er mikill munr; þær er flytiaz frá Hollandi, ætla menn, at taki odrum fram í nordurálfunni. Danir ástunda nú og frekliga miog plontun tédrar jurtar, og mun sú fyriætt vallda því, at rótin verdi, þegar fram lída stundir, ódýrari enn ella. En vidvíkiandi siálfri litunar-atferdinni, þá hlýdir mótmælislaust, at ull, vidur edr hvat annat, sem til litunar er ætlat, sé táhreint þvegit, og at því búnu, tekr madr, til dæmis, 10 lód álúns, og 2 lód af raudum vínsteini, steytir smátt, og sýdr þar í, medr sýrdu vatni, ullarspuna, er sætir tveimur morkum, frekar tvær stundir dags; og stendr svo ullar-spuninn edr ullin þar í 7 edr 8 daga, en klædi edr vadmál helmíngi styttri tíd. Nú er svo giort, sem mællt er, og þá taka menn til at nýu, setia vatn uppá hlædur, og heita svo, at hond þoli vel í vatninu; er þá rétt til hæfis, at krapprótinni sé komit í ketilinn, og sídan vel hrært í med þvoru, ádrenn litarefnin séu lagin í log þenna. En nær þau eru komin í

log-



løginn, má allt standa uppyfir stundarkorn, en sióda eigi, nema ef vill, miøg litla hríd at lokum, til þeß at festa litinn. Sumir brúka eina mørk krapprótar til at lita í 2 merkur ullar, en sumir helmíngi minna; og kémr mismunr sá eigi einúngis af rótanna ásigkomulagi, helldr og einnig sérhvers géd-þocka á því, at lita lióst edr dockt. Þeßa atferd hefir annars Hellot kénnt, og þyckir hún bezt fara af øllum. Krapprótar-litrinn er at sønnu eigi svo fagr ásýndum, sem añ-arskonar raudr litr, en þó ærit gódr til hversdags brúkunar, og þat því helldr, sem morkin fæzt litur fyri 15 og jafnvel 13 ß. danska.

§. 6.

## Um at lita úr því svo kallada Urte Orseille.

At eigi einúngis Lichen tinctorius saxatilis, helldr og margar fleiri nytsamar mosa-teg-undir, vaxi úti á Íslandi, þat ætlar eg medr sannsøgli herma megi; og fyri þá sok vil eg náqvæmliga fráskýra atferd útlendra þióda vidr Orseille litinn, edr tédann mosa, en þó eink-um Vallenzkra, er mér virdiz at meztu leiti vel eiga vid Ísland; og fara menn þá þar at, sem at nedanverdu finzt ritat (*). Tak, til

(*) Siá litinn bækling valskann Dell' arte tincto-ria edr Piero.

til dœmis, 2 merkur af greindum stein-mosa táhreinum, og vœt þar lítilfiörliga í manns þvagi (því at annarslags þvag heyrir eigi til litunargiordar, sem ádr er umrœdt), steyt því nœst vandliga í morteri Salmiak og Steinsallt og Salltpetr, þat er at skilia, 4 lód af hverin, og hrœr saman vid mosann; lát svo allt þetta standa í 24 dœgr, og hrœr tvisvarsinnum í hvern dag; en á medan svo ástendr, skal giord þeßi smámsaman vœtt med þvagi hóflega, svo hún nái eigi þur at verda. Lát enn þá standa svo í 16 dœgr, og hrœr vel í öllu dag hvern tvisvarsinnum; ser þá giord fram at lagi. En med því at litr þeßi útheimtir enn frekari athygli, eigi vel at fara, þá tak 3 merkur af pottosku muldri, og 3 merkur af keitu, rugla þeßu vel saman hvert vid annat, hrœr vel í, og lát svo standa at nýu ennþá í 16 dœgr. At lokum auk litar-logiñ med svo miklu þvagi, sem seinast var umgétit, og lát svobúit standa í 10 edr 12 dœgr; er þá litargiord þeßi til hœfis, og hefir eg svo fráskírt atferd vallenzkra manna. En sakir þeß at nágrannar vorir Fœreyíngar lita einnig dásallega raudt úr steinmosa (Lichen tartareus), og med minna kostnadi helldr enn adrar þiódir, sem Íslandi mœtti og at gagni koma; þá skal hér og segia frá adbundum þeirra, sem lióast má, og sem eg frekast fregnat hefir.

Mosi-

Mosi sá, er Færeyíngar úrlita, er hvítr edr og grænleitr at lit, og vex á steinum hver-vetna slatr med útskurdi á, sem lítil prións-hofud væru. Þenna mosa kalla Færeyskir á sitt mál Baaler; og er gnægt mikil þar af á Íslandi, nálægt hvar sem stendr. Þegar regn hefir gengit nockra hríd, skafa menn mosann af steinunum, og hnoda hann svo lengi í þvagi, þar til hann verdr seigr, sem deig eitt væri; kallaz þá deig þetta Korkji, edr Rörkr á vora túngu, og sveypa menn hann í skinni edr ullar-dulu, og leggia þar um hríd sem nockur velgia er. Nú þerr-az deigit at framlidnum stundum, og má þá hnoda þat at nýu, svo optsinnis í þvagi, sem þurfa þykir, og litrinn á at vera fagr til. Því næzt hrærir madr deigit sundr í vatni, og sýdr svo þat, er lita skal, med meira og minna af deiginu, eptir því sem at hverium lit hæfir, og hann skal vera dockr til eda fagr. Skuli vel dockvu ábregda, skal enn þá blanda seydit nockrum dreitlum þvags. Sumir lita úr ótilreiddum steinmosa á sama hátt, sem Íslendíngar úr mosa-lit, en þá verdr á litnum einn hinn stærzti munr, og sem mosalitr ásýndum; þat líkar mér eigi! Kæmuz annars Íslendíngar uppá, at lita úr tédum mosa, helld eg einkis annars rauds litar vidþyrfti á Íslandi, nema ein-úngis til augna-glíngurs breytínga-manna,

þat

þared moſalitr þeßi er dægiligr ſem Karmín á at líta; og í því tilliti hefi eg þar m d ſiálfr raun giort árit 1784, londum mínum til náqvæmari eptirbreytnis, hverir gloggliga ſkynia ſannſogli þeßa ordsháttar: at hæg eru heimatøkin, og fór eg þá at á þennañ hátt. Tók vart 1 lód af ſápuþvegiñi kémbdri ull medr litln togi á (*) og hálfu meira af vel muldum korki, ſvo tilbúnum at ollu ſem fyrr ſagda eg. Lét eg þetta ſióda medr táhreinu brunnvatni, at réttum mæli hálfum odrum pela, fiórda hluta ſtundar, ádr enn ullin kom í ſeydit. Þá ſiadi eg hid þyckva fra því þunna, og lét leirpottinn yfir hlædur, þar til krauma tók, og ſídan ullina í pottinn; ſaud þá hægt í þriá fiórdúnga ſtundar, enda hrærda eg vel í á medan, og vard þó ullin eigi nóg fagr-dockraud; hellra eg fyri þá ſok fiórda hluta potts af nýrendu mañsþvagi í pottinn; ſaud ſvo ullin at nýu eina ſtund, og tókzt þá ullarlagdrinn at óſkum. Nú þvodi eg eigi lagdinn, ſem almennt vandi er til, en þerradi hann votann upp úr litnum á kakalofni, og morguninn eptir tók eg fyrſt kallt vatn, og þvodi í, en ſídan heitt, og brá hvergi neinu. Þar á ofan þvodi eg ennþá litinn lagd í heitu vatni med grænu

(*) Tog litaz miklu ſeinna enn Þelit, og er þat atgætſluverdr hlutr í ollum litar aiferdum ullu vidvíkiandi.



græúni sápu, skipti þá vatnit litum ofrhægt. En vili menn eigi at svo skuli fara, þá láti álúnskorn í litinn, og mun honum þá hvergi bregða. Þegar svo var komit sem mællt er, átta eg eigi meir heima, at giora raun með, af mosanum; tók því afgáng mosaseydisins, er ullin hafði fyrr verit í litut, og þannig hafði týnt meztum hluta styrkleika síns; brá því yfir elld, þar til er kráuma tók, og lét svo þar í, með ofrlitlu af álúni, 2 piotlur, aðra af hvítu lérepti, en aðra af hvítu silki-tafti táhreinu. Þetta sauð eg í téðum legi fiórða part stundar, og tókzt silkit svo vel, at hind var á, en léreptit nockru miðr; hvat mér þó virðtiz fábreytt, nema ef óhreinindi hafi fólgin verit í léreptinu, sem eg þó varla trúi, vegna þeß at léreptspiatlan var þvegin tvísvarsinnum áðr; og fyri því gét eg til, at Korkr eðr Steinmosa-litr eigi betr við ull og silki-vefnað, enn lín og annat þeßkonar. Framvegis má hér þeßu viðbæta, þeim til íhugunar sem Ísland byggia, hvar gnægt er nóg af margskonar mosa, framar enn í oðrum londum morgum: at með því rauðt má lita úr fleirum mosategundum enn steinmosanum einum, þá er ærit nytsamligt at fylgia Hellots ráðum í því, at reyna fyrifram, hverjar helzt mosategundir þat séu, er sagdann lit megi úrlita. Tak því til reynslu 2 qvintín mosa,

lát

lát hann í pytlu eina, og ásamt dálítit af þeim svo kallada Salmiak-Spiritus, þartil jafnvægi af kalk-vatni, svo at wosinn nát vel deigr at verda. Tak þá enn á millum tveggia fingra Salmiak, og hryst samanvid í pytlunni; set svo tappa í, og bind fyrir at ofan med margfolldu skæni; má þá skommu seinna áskynia, hvert raudu bregdr á edr eigi. En bregdi hvergi neinu, þá er mosinn, hverskonar hellzt vera kann, óhæfiligr til raudrar lit-giordar. Reynslu medolin til þeßa er at fá í Læknisnesi sydra.

## §. 7.

## Um þat, hve lita skuli raudt úr Brasilíu- edr Fernambuck-trénu.

Uti á Íslandi hefir eg séd nockrar konur, allvel skynsamar, lita úr beßtillu Brasilíu- og Fernambuck-tré; en lit þeim brá jafnán skiótar enn skyldi, og er þat vorkunn mikil, þvíat svo hefir lika tilteki; fyri odrum þiodum, betr undirbúnum á allañ hátt, enn fólk er á Íslandi, sem þó er ecki vits varnat. Þar um eru menn añars samdóma, at uppsprettu edr rennandi vatn eigi hvergi vid Fernambuck-tréit, helldr einúngis brunnvatn, edr þeßkonar vatn, er eigi á sápu vinnr. Nú er vatninu þannig varit, sem mællt er, og þá tekr madr trésþænina, og sydr í vatni



eßu ¾ stundir dags, hellir svo leginum í kéralldsꝛkorn edr kollu, og eys at nýu brunᵭ vatni uppá spænina, eins mjúku og ádr, og lætr spænina aptr þar í sióda 3 stundir; hellir svo hverutveggia seydinu saman, er standa skal med hlemi yfir, þar til at nockurnvegin þyckt verdr og þvalt af situ. Er þá litarseydi þetta vel búit og vandat sem vera byriar. En svor enn til sé tekit at lita, er ómißandi med ollu, at ull edr hvat añat, sem lita skal, sé svo þvegit og undirbúit, sem ádr er tilskilit, og bregdr litnum ella, hvert sem hann kémr í vind edr sól. Tak sakir þeß, til dæmis, 2 merkur ullar, vatt 1 mork álúns, og 1 lód af vínsteini, (en sídr enn eigi meira af honum), lát svo ullina þar í sióda 3 stundir. Vind sídan uppúr hægt og hægt, og heng út í hiall til þerris í 8 daga; og er þá ullin hæfilig til at veita litnum mót-toku, enn fyrr eigi. Nú má ollu þeßu svo varit sem um er rædt, og er þó enn fleira at athuga, eigi litr þ ßi at vera stadfastr til ellidaga; fyri því tekr madr Brasiliu edr Fernambuckꝛseydit, at ollu leiti tilbúit, sem at framanverdu áqvedit er, og hvert þat er helldr lítit edr mikit, hellir því í kétilinn, litar þar úr fyrst tvisvarsinnum þeßkonar eitthvat, sem eigi þyckir miklu umvarda, en sé þó ádr sodit med álúni, og verdr þá eptir í katlinum at lokum hér um þridi hluti seydisins, og er

þá

þá seydi þetta, þát er úr má lita, svo at gégni, þegar litunar-efnin eru þar í sodin fram undir 3 stundir. Um Coccos-litinn er gétit at framan, og læt eg þar vid standa um sinn, af því at bágt mun veita at fá þaraf nockut toluvert; enda gylldir þat einu, sé um hina raudu litina fiallat sem byriar.

## §. 8.

## Um at lita raudt úr Gulmødrunni (*Galium boreale Linn.*) og ødrum fleirum Mødru-tegundum.

Jurtin Galium verum kallaz á danska túngu Klammerurt, en Galium boreale glat Engerøde. Eiga bádar þær náskylldt vid modrurkynit, sem alþeckt er úti á Islandi, af því at þat vex þar nálægt því kríngum bæ hvern, eigi at tala um í úthogum og á fiollum uppi. A modru-raudum lit ser dáfalligá, og er þar hiá litill vandi á med at fara; þvíat madr grefr einúngis ræturnar upp, annathvert snemma á vorin edr seint um haust, þat er at skilia, þegar eigi er gródi neinn í jørdinni. Þessar rætur skulu þá fyrst vel hreinar giørvar, sidan upphengdar til þerris, og því næst maladar, med tegund af mallti í, á handqvorn, slíka sem þær er nú fara í voxt á Islandi. Af þessum blendíngi kémr miøl, og tekr madr þaraf lag eitt, og leggr á medal

lags hvers af allskonar vidum þeim, þunn-greiddum og auk þeß táhreinum, er litaz eigu; sýdr svo þetta allt í frekar 2 stundir; skal þá ofantaka og skola litinn upp úr kolldu vatni, og hengia upp til þerris. Gult tekzt þetr raudt úr modru-litnum, enn þat hit hvíta. Líka svo lita menn raudt úr Tiørujurtinni, (Lychnis viscosa), og jurtinni Herba Paris, er Danir kalla Troldbærgræs. Sú en sídst-talda jurt vex í giótunum á Alþíngi allfriós-líga, og vídar annarstadar á landinu; og heyrda eg einusinni þann lærda mann, sál. Biarna Pálsson, nefna hana med íslenzku nafni, hvat eg nú aungvannvegina gét mun-at. Jurt þeßi er annars audþeckt frá ollum odrum jurtum, af þeim svarta hnappi, er sitr í kollinum. En ádr farit er til at lita, hentar bezt, at vestrinn eda þelþrádrinn, edr ullin sé sodin fyrst í vatni medr á úni, og síd-an þurkud; þarnæzt tekr madr af Trøllaber-ia-grasinu þurru svo mikit, sem henta þyck-ir, sýdr þat vel og lengi í vatni, og þegar kallt er vordit, nýr grasit kappsamliga mill-um handa sér; at hveriu búnu seria skal pott-inn aptr á hlædur upp, med því er lita skal í, og láta þá sióda enn um hríd, en taka sídan ofan; og liggi þó litriñ í seydinu þartil kallt verdr, og hengiz svo út til þerris. Adreñ blómstrbært sé, skal því af grasi þeßu safna, er til litunar giordar ætlaz; og er svo at sinni út-talat um rauda litinn.

III. Kap.

# III. Kap.

## Um gula litinn.

§. 1.

Um adgreining á þeim gulu litar-tegundum.

Þær gulu litar-tegundir eru at flestra dómi tíu; þar af eru fim stødugar, en hinar fim óstødugar; þat er at skilia, at þessum bregdr, en hinum varla; og sagda eg eigi hvergi, af því at sjór, sól og regn vinna á ollum máttum litar, þá er yfirburdum mæta, en sumum eigi ella. Þær stødugu gulu litar-tegundir eru annars: 1) Vau edr, sem at adrir kalla jurtina, Svínahali (Reseda Luteola). 2) Jurtin Engesktær, er Danir svo nefna, þat er Sertula tinctoria. 3) Genista tinctoria, er Danir kalla Gule-Riis. 4) Guul-Spaan edr Brasilíu-tré, sem ádr er umgétit; og loksins 5) Grækisk Høe (Gricksa-hey), á Látínu kallat Fænum græcum. Þar ámóti reikna; til enna óstødugu edr følnandi gulu litar-tegunda: 1) Orlean; 2) Fustel; 3) Einskonar deig,

 er

er kallaz Roucou; 4) Gulebær; og 5) Gurkumeya, terra merita. Ä allt þetta er drepit í stuttu ágripi, Londum mínum til íhugunar. En þvínæzt má þat adgæta, þegar lita skal gult, at fegurd og dockleiki ens gula litar ser miøg svo fram, eptir því sem lengi er sodit, og svo edr svo miklu álúni edr vínsteini komit er í litarlog hinn fyrsta. Nú er siálfsagt, at úr fleirum jurtum má gult lita, enn sem ádr eru taldar, svo sem til dæmis: 1) Jafna, sem alþeckt er úti á Íslandi; 2) Telzt med gulum litum sá enn guli mosi, Lichen parietinus, er vex nálægt því vidr bæ hvern; 3) Þat svo kallada Jónsgras, Pingvicula vulgaris, og Túnafífill, Leontodon taraxacon, er Færeyíngar lita úr; einnig Einiberiamosi, Smári, margar Mødru-tegundir, og s. fr.; hvat eg ætla nægia megi um sinn, svo at Íslendíngar þurfi eigi at bestilla nockrar gular litar-tegundir utanlanz frá, nema ef vera mætti, til vidhafnar nockut þ. ß. ámillum, af gula spæninum edr því gula Brasilíu-tré, sem audvellt veitir at fá hiá Donum.

§. 2.

## Um þat, hve lita skuli gult úr innlendum Jurtum, svo at vel á fari.

Allar þær jurtir, sem ætladar eru til litgiördar, skulu teknar í þurru vedri, og ádr enn

enn blómstrbærar séu, og þurkadar sídan í vindi eda sólu; þannig og hinar gulu. Ádr enn farit er til at lita, skal sióda ullina edr vidurnar eina stund dags í álúns-vatni. Sídan tekr madr jurtirnar, nýr þær ámillum handa sér, edr sker í sundr smátt og smátt, og færir í litunar-pottinn, leggr sídan lag á lag ofan, eitt af ull edr vefnadi, enn annat af jurtum, edr, sem sumum þyckir betr vidéiga, lætr jurtirnar sióda í poka-korni, ásamt med því er lita skal, og þat svo lengi, at fogrum blæ taki á at bregda. Á þennann hátt hefir eg séd litat bædi úr Jónsgrasinu, er sumir kalla Lyfiagras, og líka eins úr Jafna, ásamt þeim fyrrsagda gula mosa, svo at dægiliga hefir áfarit; og ætlar eg at þannig megi med ódrum jurtum.

§. 3.

## Um at lita úr gulu Spónunum.

Brasilíu-tré má annathvert smátt rifit edr heflat vera; því at odrum kosti er þat eigi hæst til litunar-giordar. Allt at einu, sem ádr er umgetit, skal allr vefnadr, ull og sérhvat annat gult litunar-efni, sióda; í álúns- og vínsteins-vatni, um eina stund, fyrr enn litat sé; og er þat til hæfis, at 4 lód álúns og 2 lód vínsteins mæti 4 lódum af gulu spónunum, edr legi þeim, er gulu spæn-

 irnir

irnir hafa verit sodnir í; þvíat betra er at sióda þá fyrst, og sídan at lita í spóna-seydinu, hér um einn fiórdúng stundar, og er þá því starst lokit.



# IV. Kap.

## Um at lita grænt.

### §. I.

### Um mismun á grænum lit og ødrum.

Græna litnum er eigi svo varit sem ádrtédum litar-tegundum, þvíat hann er blandadr litr, en hinir ecki. Eigi annars græni litrinn at vera fagr ásyndum, þá má allskonar litar-efni fyrst vera álúnerat, þat er at skilia, sodit í álúns-vatni hér um hálfa stund dags. Grænt má lita á margskonar hátt, og þat bædi medr útlenzkum medølum, og líka einnig þeim, er heima eiga á fósturjord vorri. J þetta sinn hirdi eg eigi um, at hræra mikit vid þeim útlendu litar-tegundum; þvíat þær er eigi allar hægt at fá úti á Jslandi, almenníngi til nota; og

fyri

fyri þá fek er hins at géta, sem minna kostnadi sætir, og hér at nedan mun fráskýrt.

§. 2.

Um at lita grænt úr Einiberium.

Eins sem fyrr er ritat, skal litar-efnit fyrst sióda í álúns- og vínsteins-vatni um hríd, hvar í blandat sé tveim þridiúngum af bláu Viktríli, sem er ódýrt, og einum fiórdúngi Salmíaks ámóti álúninu at reikna. Þar á eptir tekr madr Einiberin, og sýdr þau á-samt því, er lita skal, og verdr þat þá grænt, einkum ef skolat er at lyktum upp úr beyki- edr birki-lút.

§. 3.

Um at lita grænt úr Indigói.

Blátt og gult er undirstada ens græna litar; en þegar vel á at fara á grænum Indigós-lit, þá má svo til dæmis atfara. Tak ull edr vadmál, er vegr 12 merkur, þá 2 merkur álúns, og 1 merk af vel steyttum vínsteini, medr álúninu, siód þar í þat, er lita skal, nær því eina stund dags. Sídan býr madr þann gula litunar-lög til á þann hátt, at sióda Modru edr Lyfiagras þar í, ellegar adrar gular jurta-litar-tegundir, med lút-blandi; og dýfir þá vandliga vefnadinum

 edr



edr ullinni í þat gula seydi tvisvarfinnum, og mun þá fagrgulu á brá; en þá strax á eptir í Indigó loginn nockrumsinnum, þannig sem litrinn þá at vera liós- eda dock-grænn til. Samt er þat ennþá athugandi, at sé ullin fyrst litud gul og sídan blá, sem þannig at lyktum græn verdr, þá má hana vandligar þvo, enn þegar menn lita fyrst upp úr bláu og sídan gulu, sem ogsvo at lokunum verdr grænt.

## §. 4.

## Um at lita grænt med Heimilis-Nióla-Blødkum.

Þær Heimilisnióla-blodkur, sem ætladar eru til litunar-giordar, skulu teknar ádr enn jurtin hefir tapat nockru af mætti sínum, þat er ádr enn hún verdr fullvaxta. Sídan skal tédar blodkur saxa medalmáta smátt, og þá sióda í lækiarvatni um hríd, og at lokum sía seydit frá blodkunum. Þetta Nióla-seydi lætr madr enn at nýu sióda med álúns-mola eina hálfa stund, og leggr þar í ullina, þegar ofan er tekit; og er ull sú græn, þegar kallt er vordit í pottinum. En sé þá litrinn eigi svo grænn, sem hlýda þyckir, er þat lióst merki, at ofliltu hefir komit verit í af blodkunum, og skal þá vidbæta á sama hátt, sem fyrrum er umgétit.

§. 5.

Um at lita grænt úr Blødru-þángi
(*Fucus vesiculosus*)

Færeyíngar lita dáfalliga grænt úr Blødru-þaranum, og hví mætti þá eigi líka svo á Íslandi, þar sem gnægtir eru af honum við siáfarsíðuna? Eptir því sem eg hefi frekazt áskynia vordit, þá fara Færeyíngar þannig at. lita úr téðum þara, nefniliga: Þeir taka Blødru-þarann, hvert helldr hann er þurr eða votr, saxa hann smátt edr knosa; sióða síðan um hríð, ásamt með því er lita skal, og þekia þar eptir litinn og þángit saman-við í arfa-hrúgu, edr og með fotum einum, svo eingin gufa nái upp at leggia. Þá sióða þeir at nýu þarann, og dýfa litnum ó-tæpt í logiñ, en láta þorna þá og þá ámedan at þeßu fer fram; og skal ítreka þeßa at-ferd, þar til fallegum grænum blæ bregdr á litinn. En siálfsagt er, at fyrr enn tekit er til at lita úr slíku þara-seydi, megu litar-efnin sodin vera í álúns-vatni, sem vandi er til ella. Ur Marhálmi (Zostera maritima) má einnig lita liósgrænt, hvat eg og siálfr reynt hefir; en um bremíngar og medferd þeß-konar litar mun einhverstadar seinna betr skýrt. Án nockurrar mædu, nálægt at segia, má og lita úr þeßari jurt Celadon-grænt, og fyri því ætti hún med réttu at vera moñ-um hugleikin.

V. Kap.





# V. Kap.

## Um at lita lifraudt.

### §. 1.

### Um at lita medalmáta fagr-lifraudt.

Al lifraudum lit er mikill munr, og fer þó ágæta vel á ollum. En þegar hann á at verda óbrygdull at meztu, þá má litar-efnit fyrst litaz raudt, og sídan dragaz nock-rumsinnum upp úr Indigó-legi, edr leggiaz í þvag, svo lengi sem þurfa þyckir. Annars fór eg siálfr at á þenna hátt: Fyrst tók eg vidu eina vel útgreidda, og saud í á-úns-vatni um hríd, og vatt svo hægt og hægt; enn ámedan þeßu fór fram, hafda eg tekit Fernambuck-tréspæni, sodit í vatni og síat vandliga frá seydinu. Dýfda eg þá vidunni þar í nockrumsinnum, og vann hvergi á, svo at vel þætti fara; lét eg þá upp at nýu tré-loginn, og blandadi med vel steyttri Spans-grænu; saud svo þegar, og hrærda eg í á-medan, og dýfda aptr í hvítu vidunni, þar til at mér líkadi litrinn; og sætir þetta ærit litlum kostnadi, en litrinn er dægiligr, til

hvers

hvers er hafa þarf af ullar-verknadi úti á Íslandi; en mál af hverri tegund tók eg þetta sinn at handahófi, hvat þó eigi skylldi.

§. 2.

Um at lita lifraudt, er áser sem at silfr væri.

Tak til dæmis 2 merkur af smábandi, 1 lód af vínsteini og annat af álúni, sjód litar-efnit þar í steka stund dags. Sjód því næst hálft lód af Fernambúck-spónum í vatni, og sia svo; legg þá ullina edr bandit í seydi þetta volgt, og lát þar í liggia um hríd; og vili eigi takaz sem hæfa þyckir, þá hell litlu af þvagi á ofan, og mun þegar umskipaz at óskum.

## VI. Kap.

## Um at lita lín edr lerept.

§. 1.

Sáeinar reglur um undirbúníng á allskonar lérepts-lit.

Lérept á at nockru leiti skyllt vidr ull; en at nockru leiti eigi. Lín er miklu vandgæfara en ullin at lita, og má þó hverutvegg-ia

ia nockurnveginn vel fara, jafnvel þótt litr á líni verdi alldregi svo óbrygdull sem á ull edr ullar-vefnadi; af því at einkiskonar lit-ar-tegundir taka svo miog á línit, sem á ullina, og fer þetta rétt at stofnum. Eins og ullar-litrinn skal sióðaz fyrst í álúns-vatni, þannveg skal og línit; og sem alls-konar ullar-tegundir megu vel þvegnar vera ádr enn farit er at lita, svo má og lín edr lérept, hvat hvert um sig er vel adgætandi.

## §. 2.

## Um at lita lérept blátt úr Indigói.

Til at lita 2 merkur af línþrædi edr líni, er 1 lód Indigós nógligt. Indigóit skal mulit yfrit smátt, og svo standa, med þyck-vu lútblandi, þángat til at grænu bráir á ofan. Þá hrærir madr fyrst vel í, og lætr sídan línit ofan í, med litulrædi af muldri pottoſku. Stendr svo ílátit vid hita med hlemmi yfir, þartil at tekiz hefir at óskum.

## §. 3.

## Um at lita lín blátt úr Fernam-búck-trénu.

Svo sem ádr er umgétit, má lita bædi gult, raudt og blátt úr Brasilíu- edr Fer-nambúck-trénu. Tvo pund af bláum Fer-nam-

nambúck-spónum og hálft lóð af muldri Spansgrænu, er mátuligt til at lita í tvær merkur líns. Linit liggr fyrst eina eykt dags í legi þeim, sem til er búinn af einu pundi, og þvínæst hinu af ödru pundinu með spansgrænu og pottösku í; edr og madr færir línit fram og aptr í þeßu seinna seydi, þángat til vel er tekinn litrinn.

## §. 4.

### Um at lita lín blátt úr Bláberium.

Uti á Íslandi eru svo stórar gnægtir af Bláberium, at mikilli furdu gégnir; en alldregi hefir eg áskynia vordit, at neckr hafi úr þeim litat, helldr krækiberium einum, og þó medr litilli vegsemd, af því at menn vita eigi, hve med lit þenna fara skuli. Nú er þeßu svo varit sem mællt er, til einkis ávinnings gódum Londum mínum; en látum oß stunda at ráda bót neckra á sliku, og lita úr bláberiunum allt at einu sem adrar þiódir; hvat ské kann á þenna hátt: Tak til dæmis 6 merkur af bláberium, og myl þángat til þau verda at brærigraut einum; lát svo þar samanvid 12 lóð álúns og hálft 5ta lóð af muldu smidiu-gialli, og hrær svo allt þetta vandliga saman. Þar eptir legg léreptit edr línþrádar-vidurnar þurrar ofaní maukit, og lát þar vid standa í 6 dægr;



en þegar svo er framfarit, þá skal ollu hella í járnpott táhreinann, og ausa ediki edr gamalli sýru á ofan, og þat svo mikilli, at hér um fiórdúngr potts svari pundi hveriu, af því sem lita skal; og þegar þat er búit, skal logrinn siódaz medr litnum í hér um 1 fiórdúng stundar; enda skal þá ámedan hræra vel í, og standi sídan þángat til kallt er vordit. Svo dregr madr litinn upp úr, og skolar fyrst í vatni, en sídan úr lút, og hengir svo upp til þerris.

## §. 5.

## Um at lita lín raudt úr Fernambúck-trénu.

Fyrr enn lín má raudt lita úr Fernambúck-trénu, verdr at lita þat gult med odrum lita slegundum. Þar til brúka flestir útlendir útlenzkar lita-tegundir, svosem til dæmis: Orlean pottosku blandit, og svo fr.; en eg ætla at Lysiagrasit og íslenzki Jafninn, med odrum fleirum þessskonar jurtum, muni allt at einu vel reynaz sem hinar, þegar um er búit og adfarit svo sem sídar mun frá-skýrt verda. Sem nú hinar gulu línþrádar-vidur eru nýliga dregnar upp úr lit, þá tekr madr hér um 12 merkur vatz, og 8 lód af álúni ámoti 2 morkum líns edr línþrádar, sem í legi þessum má liggia 16 stundir

ir, og sé hrært í þeß ámillum; en at því búnu tekr madr 10 lód af Fernambúck-trénu, sýdr þat í 8 pottum vatz eina stund, og hellir svo sendinu í kéralid, til þeß arugg-it er fallit at botni nidr; þá skal hella hinu þunna ofanaf, velgia svo at nýu, med einu qvinnini af vel muldum gallep'um í, (hver at ætlan minni vel eru þeckt á Íslandi), og hræra vandliga í Í þenna svo undirbúinn lög legar madr gula litinn, tvær stundir, þvættar vel í, hengir svo upp til þerris, og er þá línit gnógliga raudt, og fagurt at öllum umbúdum. Hvat annars vidvíkr Krapprót og Cochenillum, þá má at vísu lita lín raudt úr hvorutveggiu þeim, og þat á ivofalldann hátt, líka eins úr Kalk-viku og Fernambuck blandi, med ymiskonar tilbúnadi; en at telia allt þetta fram í þeßu stutta ágripi, mundi helldr lángt þyckia; og er þat ödrum, hellzt velferla-monnum þeim, er gnægtir hafa fiár og velldis, til atgætslu og reynslu eptirlátit.

## §. 6.

## Um at lita lín gult úr Gurkumeyum.

Gurkumeya (edr Kurkumeya) er einskonar rót, sem flytz frá Vestr-Indíum, enda og frá þeim eystri, og fæzt þó í Kaupmañahöfn med gódu verdi. Ur þeßari rót má,

fyrir 8 fiska, lita 2 merkur línþrádar, þegar saman vid hana er komit tveim lódum af vel muldu álúni, og þrádrinn edr línit hefir ádr fodit verit í álúns-vatni, sem vandi er til. Medan verit er at lita, sem stendr yfir hér um hálfa stund, má itugliga hræra í litunar-katlinum, og er þá gnógt seydi á, þegar þat tekr vel uppyfir lininn. en þegar búit er at lita, skal eigi draga upp úr seydinu fyrr enn þat er kallt ordit, og at lyktum skola línit upp úr kölldu vatni, og hengia svo út til þerris.

## §. 7.

## Um at lita lín gult úr Jafna.

Þat er atgætandi, at hverskonar jurtir, sem menn vilia hagnyta sér til at lita gult úr, mega teknar vera í þurvidri og í dögglevsu, og jafnframt því á eptir þurkadar í vindi, enn eigi sól. Til at lita 2 merkur líns edr línþrádar í, er nóg 1 mork af þurrum jafna, og 3 lód af pottosku, sem siódá skal í 12 pottum vatz freka stund, og sía svo jafnann frá seydinu, er standa skal, til þess at kallt er ordit, í íláti neckru af tré. Þegar nú léreptit eptir vanda hefir fyrst sodit verit í svo sterku álúns-vatni, at 4 lód sæti pundi, þá skal þat leggia í ádrgreint seydi, blandat med litilsiorligu af vel muldri spansgrænu,

grænn, og liggi þar í freka stund dags, og vardar um at hrært sé í á millum. En eigi litrinn' at vera miog Dock-gulr, þá skal meira tiltaka af hverri tegund. Ur gulamosa (Lichen parietinus) þeim, er vex á gömlum triám og vídar annarstadar allgnógl:ga, hygg eg lita megi gult, nær því á sama hátt, sem Færeyingar lita raudt úr steinmosanum, hvers ádr er gétit (Kap II. § 6) og mun annars náqvæmari raun þar um géfit géta vitni.

§. 8.

## Um at lita lín gult úr Birkilaufi.

Ur Birkilaufi hefir eg séd nockrumsinnum litat gult á Íslandi; en eigi þótti mér neitt í þeßkonar lit spunnit. Þat lín sem annars skal lita úr byrkilaufinu, má fyrst sodit vera í á.úns-vatni; þá tekr madr birkilaufit nýliga útsprúngit af triánum, edr þurt, ef safnat er at midsumars-dogum, og sýdr þat medr lút, og nockru álúni saman vid; og þegar logrinn er þannig tilreiddr, má leggia léreptit í loginn, og bylta því vel um, svo at litrinn nái eigi at verda brondóttr. Sumir sióda bædi birkilaufit og línit í sió undir eins freka stund, og þyckir þat sæta minni fyrirhofn enn ella.

§. 9.

Um at lita lín grænt.

Allskonar lín og líka svo klædi, edr hvers-kyns adrar ullar-tegúndir, fara ávallt betr med sig, og bregdr vid alldrinn miklúngi minna, þegar þær eru fyrst litadar bláar, og sídan gular, helldr enn þegar fyrst er litat gult, og sídan blátt, sem hvert um sig verdr grænt; og sætir þetta mikilli varúd í kaup-um og sölum (sem dæmi munu tilfinnaz á Islandi, at því leiti sem hin grænu kaup-manns-klædi snertir, sem jafnan verda gul, laungu fyrr enn aflóa eru samamegin; og kynni eg nóg at telia med sannsögli um eina og adra breytni kaupmanna þessu vid-víkiandi, ef til villdi fara, hvat þó eigi er minn ásetníngr at svo komnu, og á eigi helldr heima í þessu). Því myrkblárri sem ullin edr línit er litat í fyrstu, því dockgrænna verdr hvert um sig at lokum, og svo þvert á móti. At lita grænt, er hverki mikill kost-nadr, né helldr vandasamt; því at madr tekr til dæmis 2 merkur af jafnagulu líni, og 8 lód af blám Fernambúck-spónum, sýdr þetta saman í 16 morkum vatns; freka hálfa ad-ra stund; og þegar þannig er komit litunar-giordinni, þá má sióda í seydinu litla hríd hálft lód af vel muldri spansgrænu; enda er þá líninu komit í loginn, hrært í þeß á



millum

millum, og látit liggia nockut í leginum, þángat til litit er svo grænt sem hlýda þyckir. Sú en önnur adferd, at lita grænt, er þeßi: Til at lita 2 merkur lius edr liuþrádar í, tak 2 lód af gódu og vel muldu Indígói, 1 lód af smásteyttu álúni, og 4 potta regnvatz, hrær allt þetta saman, og lát svo standa 3 eyktir í leirpotti (*); en at því búnu sióð log þennann hálfa stund, og sía svo hit þyckva frá, og er þá blái logrinn at öllu leiti búinn. En hit gula seydi er á þennann hátt tilbúit: Fyrst tekr madr hálft lód Gurkumeyar, edr sé hún eigi til, þá 1 mörk af þurrum jafna, hálft lód af pottosku, og þar til 4 merkur regnvatz, (því at jafninn á vel vid þetta hvertveggia); sydr svo jafnan nockra hríd í seydinu, og hrærir vel í á medan, dýfir sídan léreptinu ofan í seydit, eda lætr þat liggia þar í, til þeß at tekit er sem hæfa þyckir. En þá tekz gult betr

 enn

(*) Furdu þyckir gegna á medal annars, at Danir alldregi flytia ne hafa flutt leirskálir, leirpotta, edr annat þvíumlíkt til sölu út til Islanz, og láta helldr eigi giora þetta í landinu, þar leir er gnógr til nálægt hvervetna. Allir vita, at Island á varla spítu í eign sinni; allir vita og, at þar er miólk ánægianlig stundum, ef eigi brysti ílátin. Hví má þá eigi brúka leirkerin, er kosta harla litit, og eru þó landinu, allrahelltz væru þau heimagiörd, ærit nytsamlig?



enn ella, ef vel er íhrært, og léreptinu at lokum dýst ofaní vínedik, og svo undit upp úr, en sídan lagt í bláa loginn, svo tilbúinn sem fyrr er umgétit, og byllt þar um, svo lengi þorf giörist; eptir þat skal þvo línit upp úr kolldu vatni, og hengia út til þerris í hlé og móti sólu. Um at lita lín grátt, mosaleitt og svart, gæta eg nockut fráskýrt í þeßu at lokum, ef villda; en grái litrinn hefir hingat til eigi verit í miklu dálæti á Íslandi, og um mosalitinn, sem og einnig sortulitinn, er nógu vel ser á, vita þar flestir sæmiliga at fialla; og fyrir þá sok læt eg þar vid svobúit standa at sinni.



# VII. Kap.

## Um at lita Silki.

### §. 1.

### Nockrar almennar reglur vidvíkiandi silki-litnum.

Enn þótt harla lítit sé af silki edr silkivorum úti á Íslandi (hvat einu þycker gyllda, þar fátæklingar einkum megu vel láta sér

ſér lynda vid minniháttar vidrhoſn), þá virdiz mér þó eigi hlyda med ollu, at hlaupa olldúngis yfir ſilki-litar-giördina. Þær almennu reglur, ſem allskonar ſilkilit teliaz ſambodnar, eru þá þeßar: a) Ádr enn farit er at lita ſilki, ſkal fyrſt þvo þat úr gódri hvítri drofnótteri ſápu, á þann hátt, at madr tekr ſápuna, ſkér hana ſundr í gagnþunnar flíſir, og eys ſvo útyfir ſiódheitu vatni, og hrærir ſídan í ollu vandliga med hríſlugviſti, þángat til allt er vordit at mauki; en þurfi meira af heita vatninu, enn fyrſt var í auſit, þá má ſmámſaman vidbæta. Ofaní þennann ſápulog dyfir madr annathvert ſilkinu, edr og þvær þat upp úr honum, en þó eigi fyrr enn hann er kalldr vordinn, og þá því næzt upp úr hreinu vatni. Vili menn lita ſilki gult, grænt, blátt eda raudt, þá nægir hálf mork af ſápu til þeß, at þvo 2 merkur ſilkis úr, en hvíta ſilkit útheimtir meiri ſápu. b) Er olldúngis ómißandi, at láta ſilkit, þannig undirbúit ſem mællt er, ſtanda í álúns-vatni hér um ſvek 2 dægur, ádr enn farit ſé til at lita, og tekzt þá ſilkit betr, ef álúnit er eigi ofmiog tilſparat; en þó ſkal þvo ſilkit at lokum upp úr táhreinu vatni, ſvo at álúns-logrinn nái at renna jafnar enn ſvrr hvervetna um ſilkilitinn. Vid hvíta ſilkit á brennuſteins-reykr vfrit vel, hvat eg þó læt hiálída fleira um at ræda at ſvokomnu.

 §. 2.

§. 2.

## Um at lita silki blátt með Indigói.

Þegar silki er svo undirbúit, sem fyri skémsta var frásagt, þá má þat blátt lita á sama hátt, sem fyrr er gétit um ull og ullarvefnad (siá I. Kap. §. 8. 9), en heitr logr á beir við silkilit, enn kalldr.

§. 3.

## Um at lita silki døckraudt úr Fernambúck-trénu.

Þegar búit er at þvo silkit fyrst úr sápu, og þvínæst úr álúns-vatni, á sama hátt sem mællt er í þeßum Kap. §. 1. þá skal taka til dæmis 2 merkur silkis, og 10 lód af Fernambúck-tré, og láta þetta sióda eina stund í 16 morkum vatz. Sídan tekr madr loginn ofan, hellir honum í tré-ílát nockurt, og láti svo riúka af um hríd; og þegar hann er ordinn máuliga kalldr, má koma silkinu ofan í loginn, og liggi þat hér í eina stund; enda vardar þá, at ámedan sé vel hrært í silki-litnum. Og at því búnu, skal taka hér um 16 merkur vatz, og þar í blanda 1 lódi af gódri pottosku. Ofan í þenna log leggr madr silkit at nýu litla stund, bylltir því vel um, og tekr svo upp úr, vindr þat hálfþurt og hengir upp til þerris. Þeßi litr er

auug-

aungvannveginn kostnadarsamr, en þó dægi-
liar áferdum. Sú en. hvítdrofnótta sápa
tekr hinum hvítu sápu-tegundum fram, til
þeß at þvo bædi hreint og óhreint silki úr.

## §. 4.

## Um at lita silki gult úr Jafna.

Eigi hefir eg siálfr reynt at lita silki gult
úr jafnanum; en þar ed ullar-litr úr jafna
á ærit skyllt í ollum áferdum vidr ullar-lit
Dana úr Engeskiær-jurtinni, er þeir og
lita silki úr, þá má traudliga hiá því fara,
at jafninn reyniz eins gódr til silki-litar sem
jurt þeßi, ef hún vex eigi á Íslandi. Þat
er siálfsagt, at bædi silki og silki-vefnadr skulu
undirbúin med sápu-þvotti, og álúns-badi,
sem fyrrum rædda; og at því búnu tekr
madr til dæmis, til at lita 2 merkur silkis
í, eins mikit af jafna, sýdr hann einn fiórd-
úng stundar, og blandar svo því hálfa af
jafnaleginum saman vid eins mikit vatn í
odru íláti, kémr þar í silkinu, og lætr ligg-
ia einn fiórdúng stundar; sídan ítrekar þetta
odru sinni í því, er geck af leginum fyrsta
sinn, og lætr silkit liggia þar í svo lengi
þurfa þykkir; vindr sídan upp úr, og þvær
at lokum í vatni. Þá er litrinn fullgiorr,
og má hengiaz út til þerris. Med odrum



íslenzkum gulslitar tegundum smætti, at ætlan minni, líka svo lita silki gult.

## §. 5.

## Um at lita silki grænt med Jafna og Indigói.

Þat silki, sem ætlat er til gulslitar, má fyrst tvísvarsinnum þvo úr sápu, og sídan lita úr jafnanum á þann hátt, sem í næst undangángandi §. 4. er tilskilit; og er þá sídan hægt med at fara, þat er at skilia, annathvert at dýfa silkinu í Indigós=loginn volgann, edr at láta þat liggia í honum þángat til tekiz hefir at óskum. En géf ætíd vel gaum at, at hrært sé í sem hæfir, hvert sem helldr er litud ull edr silki, bómull, vadmál edr hvat annat; þvíat annars verdr litrinn skollóttr, medolin ásamt spillt med ollu, og fyrirhöfnin at eingvu gagni.

## §. 6.

## Um at lita silki svart.

Adrar þiódir lita ull og lín svart med margsháttudum medolum, til damis ullina med Elniberki og Stálsvarfi, item í Galleplum og Súmak, og línit med stálsvarfi og ediki, edr mannsþvagi, ásamt þar í bland-inni tegund af galleplum, og s. fr. En þar

mér

mér virdiz, sem nógu vel fari á sortulitnum, þegar hann hefir vel tekiz, jafnvel þótt útlenzkum þycki eigi mikit í hann spunnit, þá læt eg hiálida um sinn, at greina frá þeßkonar starfa. En med því hinn svarti silkilitr er nockru vandgæfari, enn annar þeßháttar litr, þeßvegna má, eigi vel at fara, sióda silkit fyrst tvisvaisinnum í gallepla-legi, 2 stundir hvert sinn. Tveim morkum silkis nægir $\frac{1}{2}$ lód gallepla, sem blanda skal muldum hvert sinn vid tédann log; og at því búnu tekr madr 6 lód gallepla, á móti hverju pundi af silki, sýdr galleplin 1 stund, og síar svo hit þyckva frá enu þunna. Saman vid log þenna skal meinga 8 lódum af Viktríli, 2 merkum járnsvarfs, og 4 merkum af kirsiberia-qvodu, sem allhægt er at fá hiá Donum; og nær logrinn er þannig meingadr, og viktrílit, á hlódir sett med litlum elldsglædum undir, er sumlaga vordit leginum, þá má leggia silkit í hann handarvolgann, um einn fiórdúng stundar, og rugla vel í þeß á millum, taka upp úr þá og þá, þvínæzt leggia aptr í gallepla-loginn 12 stundir, og at lokum þvo í vatni og hengia út til þerris, hvert sem vill ámóti sól eda vindi. En á mis vid alla þeßa medferd gétr madr gengit einúngis med sortu-leginum; því at hann vinnr einninn á silkit, ef vel er lýngvat í fyrstu.

VIII.



## VIII. Kap.
## Um at lita Bómull.

§. 1.

Sácinar almennar reglur um at lita Bómull og Bómullar-tægi.

Ut til Íslanz flytz ærit lítit af bómull og bómullar-vefnadi; en hveriu þat sæti, þared þó þvílíkt tægi virdiz morgum odrum vefnadi betra, kémr mér eigi vid. En svo at Landar mínir, sem fáfródir eru í þeßu efni, skynia megi, hverr munr at sé á bómull, og odrum ullar-tegundum, þá vil eg drepa nockut á um uppruna bómullarinnar, og s. fr. Ordit Bómull kémr af enu þiódverska ordi Baumwolle, sem med réttu þýdir Tré- eda Vidar-ull, og Látínu menn kalla Gossipium Xylinum bombax, en Franskir Coton, sem er hit sama og Kotúnit vort Íslendinga. Svo sem nú til dæmis á vídir vex Kotún, þannig og á bidukollum, og fleirum odrum jurtum; en allt þetta er á Látínu kallat Pappus, þat er einskonar krans af hvítum hárum, er Náttúran hefir um-

kríngt

kríngt fræhúsin med, sem veriu einni fyrir illvidrum og ødrum ágángi, þeim er annars mættu verda tédum jurtum til skada. A sama hátt fer fram med bómullar afgródann, sem er tvennslags, nefniliga, sá er vex á jurtinni viris lanigera, og hinn á trénu Gossipium arboreum, sem iekr þeim einum fyrra mikit fram. Bómull vex ánægianliga bædi í Sudr-, Austr- og Nordr-álfu heimsins, og líka svo í Vestr-álfunni. Vid Smyrna vex hún med svo mikilli ákéfd, at menn verda at biarga henni þrisvar á hveriu sumri. Því lengri sem bómullin er, því betri er hún til allskonar vinnu. En vidvíkiandi þeim almennu reglum til at lita bómull og bómullar-vefnad, svo vel á fari, þá vardar 1) at litunar-efnit sé vel þvegit, ádr enn farit er at lita, edr og, sé þat eigi miøg óhreint, þá lagit um hríd í volgt vatn. 2) Sé eckert álún tilhaft í siálfum litunarleginum, þá má leggia bómullar-tægit í álúns-vatn; en eigi þarf at setia lit þennann á ello, sem ella er vandi til, þegar litud er ull edr ullar-vefnadr.

### §. 2.

### Um at lita Bómullar-tægi blátt úr Fernambúck-trénu.

At sonnu má lita bómullar-tægi blátt, svo at vel takiz, úr Indigói og ødrum þar saman



an við blöndnum tegundum; en medferð sú er helldr margbreytilig, og líka svo ærit kostnaðarsöm fyrir Ísland nú um stundir (af því at fátækt, sem Skálldit saadi fordum, helldur Ísland í, ecki vill hún sleppa því). Litrinn úr Fernambúck-trénu sætir þarámóti minna kostnaði, nær á þennann hátt er atfarit: Tak til dæmis 12 lóð af Fernambúck-spónum, sjóð þá einn fiórdúng stundar í hér um pundsfotu vatz, og sía svo þit þyckva frá enu þunna; legg síðan ofaní þenna log bómullina edr vefnadinn, einn fiórda hluta stundar, og byllt vel um í litnum ámedan. Tak þvínæst eins mikit volgt vatn, sem fyrr, edr nockru minna, og 5 lóð af vel muldu bláu viktríli, lát svo vefnadinn liggja þar í um hríð, byllt vel um at nýu, og skola svo litinn upp úr kolldu vatni. Þar eptir má fyrrgreindar 2 merkur ullar eða vefnadar leggia í Fernambúck loginn, og liggi þar um hríð, en seinazt í viktríl-loginn, þángat til litrinn er vordinn svo dockblár, sem hæfa þyckir.

§. 3.

## Um at lita Bómullar-tægi raudt úr Cochenillum.

Til at lita 2 merkur bómullar-tægis í, er mátulegt at taka fiórdúngsfotu vatz, 8 lóð af vínsteini, og eins mikit af álúni, hveru-

tveggia

tveggia vel muldu; og þegar logr þeßi hefir sodit um hríd, þá kom í loginn 5 lódum af vel steyttum galleplum, siód þá litar-efnit hér í einn fiórdúng stundar, tak tvo upp úr, og lát renna vel úr; kom þá saman vid loginn 3 lódum af smátt muldum Cochenillum, ásamt ediki og álúni; skal þá logrinn kaunma at nýu, og vefnadrinn þar á eptir látinn ofan í loginn, og þarí sodinn, en jafnframt sé vel hrært í ámedan. Um þetta bil hella sumir einum pela brennuvíns ofan í litinn, og þyckir þá betr takaz. Á tédan hátt lita Danir, og fer falliga á. Ur krapprótinni má einnig lita bómullar-vefnad raudann; en eigi lítr hann svo vel út sem hinn, er litadr er úr Cochenillum.

## §. 4.

## Um at lita Bómullar-tægi gult med jafna, edr ødrum innlenzkum gul-litandi jurta-tegundum.

Eptir at bómullar-tægit fyrst er vætt í vatni, þá býr madr jafnalog til, svo sterkann sem hæfa þyckir, og leggr þar í bómullar-tægit tvisvarsinnum, dregr svo upp, og hrærir hvervetna vel í. En at þeßu búnu, má bæta í tegund af Saffranl, og 2 morkum af Guljørd (guul Jord), sem alþeckt er hiá Donum, og kostar harla lítit. Þetta hrærir

madr

madr vel sundr í vatni, og dýfir svo vesn-adinum ofan í loginn, þurkar hann fyrst, en skolar at lokum upp úr kolldu vatni. Ur svo tilbúnum legi er mátulegt at lita 2 merk-ur bómullar-tægis, og fleiri, ef hátta-brent-íngar manna og kosin litar-áferd eptirláta þat.

## §. 5.

## Um at lita Bómullar-tægi grænt úr bláu Fernambúck-tré, og svo framv.

Lita fyrst ullina edr vefnadinn gulann úr jafna, sem ádr er sagt, en þó med litlum vidrauka af spans-grænu. Tak svo litarefnit voit, og dýf ofan í lög þann, sem til þeßa skal giorr vera af því bláa Fernambúck-tré. Í þeßum legi má byllta ullinni svo lengi, sem manni lítz at litrinn skuli vera liós eda dockr til. At lyktum vil eg þeß géta, at Danir lita einninn grænt úr jurtinni Hyperico, sem þeir kalla Jordhumle. Af henni vex nóg á Íslandi, svosem til dæmis á Porskafiardar-heidi, Hiallahálsi fyri vestan land, og hingat og þángat á fiollum og fialladolum í hinum lanzins fiórdúngum; en þó vex allstadar meirr af Hyperico Perforato, enn henni. Blómstrin og brumit af leggnum, sem hvert um sig skal taka fyrr enn jurtin er fullvaxta, er þat af þeßkonar jurtum, sem Danir lita grænt úr, med lítilfiorligu af álúni.

IX.



# IX. Kap.

edr

# Vidbætir um ymislegt.



## Fyrsta Grein.

Um at lóga blettum, er koma á klædi og annann varníng.

---

§. 1.

**Um tilbúníng einskonar vatz, er hyggnir menn ritat hafa, at megi taka allskyns bletti af med, serílagi þá, sem á lín falla.**

Þetta ágæta medal er tilbúit af 4 mörkum brunnvatz, litlum mola af pottösku, er svarar kríu-eggs stærd, og hyru at auk nockurri. Þessu ollu er vel gutlat saman, og má þá logrinn standa á móti sól, svo lengi sem svarar nóttu og degi; sídan er hit þyckva siat frá enu þunna gégnum línklædi, og logrinn

þannig geymdr, þángat til á þarf at halda. Nýdr madr þá nockru héraf á blettinn, sem þegar mun hverfa, og þvær sídan um med kölldu vatni.

§. 2.

## Um at taka ryd-bletti af línklædum.

Rydblettum skal lóga því fyrr því helldr, og má þannig at því fara: Tak tinfat diúpt, hell þar í vatni, og set yfir glædur, en legg tin-skérbord ofanyfir. Sióð svo þángat til at vel tekr at krauma í, og sindla þannig til, at vatnit nái at eins skérbordinu. Sídan kreyst Citrónu-lög ofan á blettinn, svo at vel votr verdi, og nú þá líninu vel vid skérbordit nockrumsinnum, þángat til blettrinn gengr af; en at lokum þvo línit úr volgu sápuvatni. Vili eigi rydit þannveg afgánga, þá er þat lióst merki, at oflitit hefir verit tilhaft af Citrónu-leginum, og verdr þá at fara til aptr á sama hátt, sem ádr er fyrimællt.

§. 3.

## Um at farga blek-blettum af líni.

Nýa blek-bletti má audvelldliga aftaka, á þann hátt, at dýfa líninu nockrumsinnum ofaní ósvikit edik, láta þat svo þorna, og

þvínæzt þvo í volgu sápuvatni; en séu blettirnir gamlir, þá skal atfara sem mællt er í næzt undanförnum §. 2. og hafi menn eigi Citrónur eda Citrónu-lög, sem all-líkligt er á Íslandi, þá má taka skyru-lög, sem allstadar kann at tilbúaz, ef villdi.

§. 4.

## Um at taka móleita bletti af bleikin-líni.

Þegar lín er bleikt, og eigi umhirdt at gagni, koma á þat móleitir eda mórendir jardar-blettir, sem eigi gánga svo audvelldliga úr. Til at ráda bót á þeßu, taka Danir glæiñyar kyrmiólkur-áir (hvíat traudliga strocka þeir saudamiólk), leggia lérept-it þar í bleyti nockra daga, og sióda þat sídan í pottoskú og hvítri sápu. Á lýsisbletti vinnr eintómis sápa og kallt vatn, item þvag og súrt smior, ef eigi er kostr á sápunni.

§. 5.

## Um at taka Raudavíns-bletti af líni.

Madr smyr fyrst blettinn í bómolíu, og lætr svo línit óhrært um hríd; þvínæzt nýr madr hann svo lengi med hinni somu olíu, þángat til blettrinn er horfinn, og skal þá at lyktum þvo línit úr vatni. Kaffe-blettir

gánga bezt úr í nýrri miólk volgri, en bik og tiara med Terpentín-olíu, edr og bóm-olíu, sé járn medalmáta heitt dregit um blettinn.

## §. 6.

## Um at taka fitubletti af silki og silki-varníngi.

Bletti af silki-tægi má taka med raudu einu úr eggi, séu þeir eigi miog svo ígróuir; en at ödrum kosti med pottmakara-leir, hnodudum í deig, ásamt öl-ediki, sem núa skal blettinn med. Á líkann hátt gánga blettir af silki í eggiablóma, blöndudum med hvítri sápu. En sumir taka nýar tóbakspípur, mylia þær, og núa blettina med púlverinu, þar til þeir gánga úr; og hentar þá jafnframt því, at heitum knífi edr ödru flatjárni sé ábrugdit; þvíat med slíku móti hleypr fitan inn í tóbakspípu púlverit, at óskoddum varníginum.

## §. 7.

## Um at taka blekbletti af silki.

Tak vínedik og volga pottosku, rýd þessu á blettinn; nú hann svo vandliga, og þvo síðan varnínginn upp úr hvítri sápu.

## §. 8.

### Um at taka rodma af flöjeli og plussi.

Rodma af flöjeli má farga á þann hátt, at spenna flojelit út á grind, og þvo þat svo fyrst med niardarvetti (eda svampi) upp úr volgu vatni og góðri hvítri sápu. Enn þá þetta er búit, og niardarvettinn ásamt flöjelinu er ordinn hreinn og þurr, þá skal bera brennuvín uppá þat, en þó hófliga, svo at flöjelit verdi eigi ofmiög vott, og núa svo med vettinum hægt og hægt, þángat til þat þykkir gnógliga svart ordit.

## §. 9.

### Um at lóga bik- og tiöru-blettum, er falla á klæda-varning.

Bik og tiöru af klædum má taka med bóm-olíu, sem rýda skal á klædit, og láta svo kyrt liggia í tvo dægr, enda þvo þá klædit úr volgu vatni og góðri hvítri sápu.

## §. 10.

### Um at taka bletti af raudum Skar-lats-klædum.

Tak sallt og græna sápu, eins mikit af hveriu; rýd þessu samanblondudu á blettina, og þvo svo klædit upp úr volgu vatni.

§. 11.

## Um at taka bláa bletti af grænu klædi.

Þessa bletti má astaka annathvert með pottøsku og regnvatni, eda hvítu úr eggi vid hunáng samanblondnu; er hveriu um sig rydit á blettina, og burstat svo hægt og hægt þess ámillum.

§. 12.

## Um at taka fitubletti af klædum.

Þat er góð sápa, sem til er búin af olíu einni, en eigi sú af lhsi. Lhsis-sápan flytz til Íslanz, en hina er varla at fá. Hvítt klædi má þvo úr olíu-sápu hvítri, og gánga þá vel úr nálægt hverskonar óhreinindi, en eigi svo vel med lhsis-sápunni; þvíat af henni verdr klædit miklu gulara, enn ella, og lodir ódaun vid. Hit sama má segia um línit, og rakstrar-skégg, at shla er gnóg í lhsis-sápunni, til hvers sem brúkut er. Af litklædum má taka bletti med vel hrærdum eggia-blóma, edr Terpentín-olíu, edr volgri krít, edr glóandi kolum, hveriu á sinn hátt med varúd nockrumsinnum um og á rydnu. Krít og grá-papphr (Charta bibula) á líka og heima vid þennann starfa, sé undireins heitum knísi ábrugdit. Siáfarblettir gánga bezt úr í volgu vatni og hvítri sápu; en eigi

megu

megu siósot klædi lengi óþvegin bída, þvíat þá verda blettirnir helldr til ígrónir.



## Onnur Grein.

### Um ýmisa Þvottar atferd.

§. 1.

Um at þvo allskonar ullar-vefnad.

Tak þvag og táhreint vatn, eins mikit af hverju, lát þar í álún og brendann vínstein, jafnmikit af hverutveggia, sjód svo lög þenna fyrst um hríd, og þvo sídan ullar-vefnadinn upp úr leginum, og mun þá vel úrgánga.

§. 2.

Um at þvo silkisocka.

Silki-socka má þvo, svo at vel takiz, úr gódri hvítri sápu, regnvatni og hvítu sikri, blondudu saman og sodnu einn fiórdúng stundar, fyrr enn úr skal þvo. En þó megu sockarnir fyrst vera þvegnir upp úr kolldu vatni, og þvínæst úr tédum legi. Og er þetta einúngis ritat fyri meiriháttar menn,

 sem



sem girnaz mega þvílíka vidhøfn til hymislegra mannfunda.

§. 3.

Um at þvo blátt nýtt lín.

Blátt nýtt lín er bezt at þvo úr sollrum legi, edr fisk-seydi heitu, þvíat þat bindr litinn.

§. 4.

Um at þvo silkiklúta, er sviti manns hefir í komit.

Siá hér um næzt undanfarinn §. 2.; en klútana verdr þó at festa á grind, og þvo svo med flatri hendi upp úr leginum, svo at hann nái jafnódt af at renna, sem hann er uppá borinn, þángat til vel er úrgengit.



## Þridia Grein.

## Um fægíngu Gulls og Silfurs, &c.

---

§. 1.

Um at fægia Gull og Silfr.

Tak heita sápu-lút, og þvo silfrit edr gullit þar í hvatliga med niardarvetti, svo at

at vel frædi. Med krít og brennuvíni má líka og fægia gull og silfr.

§. 2.

Um at fægia gullfestir og gull-armbønd.

Benedísk sápa er betri enn önnur hvít sápa, og er þat sú en drofnótta. Tak þár af svo mikit sem henta þyckir, sióð þat í vatni einn fiórdúng stundar, og hrær í ámedan med sleif edr spæni, svo kappsamliga, at ollu fiói í frodu. Ofan í þenna log leggr madr gullfestirnar, edr adrar gullsmídis tegundir, og skolar þær svo millum handa sér í leginum, þar á eptir í volgu og síinazt í kolldu vatni. Gángi nú eigi saurindin úr, svo at líki, þá má leggia gullit í ibrennt þvag hálfa stund, og þvo sídan upp úr kolldu vatni, og mun þá vel fara á gullinu; þvíat þvag á ærit vel hér vid, og fyri þat brálr jafnan lióma á gullit.

§. 3.

Um at fægia Gimsteina edr Edalsteina, med gull-umgiørd.

Þat mun þyckia fáuhtt at ræda um slíka hluti í qveri þessu, en eg ætla þat eigi svo; þvíat gnótt er af edalsteinum úti á Íslandi, bæru menn réttiliga skyn á. Aaron hinn

gamli Klerkr bar í brióstspaung sinni, Gudi til heidurs, steininn Jaspis, sem ritat finzt í Bókinni helgu. Steinn þeßi hinn sami géfz á Islandi bædi liós- og døck-grænn, líka og bleikr og bleikgulr, einninn fagrraudr, svo at hind er á at líta, allrahelzt þegar gulli er vafin sú rauda og græna tegund. Agat eda Hrafntinna, bædi raud og svørt, líka og hin røndótta, sem dægiliga fer á, item Calcedon edr Drángasteina tegundirnar, leigu náskylldt vid gimsteina, og af þeßkonar tegundum er gnægt mikil, einkum á Nordrlandi. Þetta villdu annars allir skynsamir umfarendr eda vegferdar-menn adgæta: At hvar hellzt sem Drángasteinar finnaz á fiøllum uppi, en eigi vid siáfarmál, þá er um þá vafin nockurskonar umgiørd af molldu edr annari tegund, sem á vid Drángasteinana, en eingann annann stein, þat eg tilveit. Allskonar steinar hafa þeßháttar edli, og þar fyrir einnig Drángasteinar, þat er at skilia, at hverr steinn vex vid Appoſition, þat er tegunda-vidbætir eda vidrauka, í því og því rúmi og samqvæmri umgiørd, er kallaz Matrix; en eigi vid generation edr fæding, sem almenníngr helldr. Þannig fer Jaspissteininum fram í þeirri og þeirri iardar-tegund, Qvartz- og Chrystallsteinunum á sama hátt, og ødrum stein-

teg-

tegundum líka svo; en eigi fædiz nockurr steinn af ødrum, svo at menn hafi varir ordit; enda er þat ósamqvæmt øllu nátt-úrunnar edli. En svo at eg víki apir til málsins, þá eru, sem eg fyri skémztu ritadi, allir Fialla-drángasteinar huldir molld, leir eda sandi, hvat hvert um sig er harla óálitlegt útvortis; en þegar rétt er atgætt, þá er hulda sú, sem hverr einn Fialla-dránga-steinn er umhorfinn, hvert helldr þat er molld, leir eda sandr, þannig ásigkomin, at úr þeßkonar efni má lita raudt, og er litr sá forkunnar dýrr og fagr. En nú er at segia, hve fara skuli at fægia gull og silfr med edalsteinum í: og tak þá vínstein, og Máríuglas, er hægt veitir at fá hiá Donum, myl þat smátt sem púlver, og rýd á gullit, bursta þat svo þurt nockrumsinnum, og nú sídan at lokum med piotlu af reiddu skinni útlenzku. Medr þeirri svo heitnu engelsku Jørd, smátt skafinni, veitir ogsvo hægt at fægia téda gripi, og hví þá ecki og med gulu bolus-jørdinni á Íslandi? Hvít saudfiárbeina-aska, mulin smátt, er auk þeß ágæt til at fægia silfr med; en medan hún er svort, eda beinin oflítit brend, er hún ónýt til þeßarar brúkunar.

Fiórda



# Fiórda Grein.

## Um at fægia Látún, Eyr og Tin.

### §. 1.

### Um at fægia Eyr og Látún.

Eyr og Látún má vel fægia með púlveri af hvítri saudftár-beina ofku ásamt bómolíu, sem madr rýðr á þeßkonar hluti, og nýr svo aflugt nockrumsinnum, þángat til øll saurindi eru afgengin.

### §. 2.

### Um at fægia Tin.

At vardveita gott tin frá óklárindum veitir hægra, enn þat margóðs-tin, sem at jafnadi flytz til Íslanz; enda er þartil fiós vottr í landinu nálægt hvervetna, jafnvel þó gridkonur mættu samt stundum nockru betr vidleika. En látum oß þegia um slíkann óþrifnad at sinni, og víkia til þeß, at Danir fægia tinbúnad sinn, enn þótt fátækir séu, med þeßum hætti: Þeir taka, nefniliga, brennuvín, skafa þar saman vid krít, og

maka

maka tinit í þeßu med vadmáls piotlu, edr odru sem hæfa kann, og láta svo áburdinn þorna á tinnu. Þá taka þeir krít at nýu, og núa tinit med vadmáls- eda klædis-piotlu, og seinazt med lín-piotlu, svoat tinit verdr full-fagurt.



## Fimta Grein.

### Um Sápu-giord.

**Um at giøra sápu úr jurt þeirri, sem á Dønsku kallaz Bregne, en á Látínu *Filix aqvilina*.**

Þat er víst, at Íslendíngar eiga rétt fallegt nafn til þeßarar jurtar, sem eg heyrt hefi bædi um Sudr- og Nordrland, en gét nú aungvannveginn munat, af því eg ritadi þat eigi strax hiá mér. Annars vex þeßi jurt nálægt því í ollum giám og giótum vid Alþíng, í Berserkiahrauni undir Gleidarhialla vestra, og annars í ótelianliga morgum urdum og giótum, hvar sem um er farit, en alldrei nockurstadar á sléttlendi, sem Jurta-þeckendr gloggliga skyn á bera. Af jurt þeßari skal í þurru vedri taka vondul

edr sátukorn, grafa þá grof eina, er svari sátunni, og brenna hana þar í til oſku, og láta ſidan ofan í vatn, ſvo at þát taki vel uppyſir oſkudyngiuna, og láta þar ſtanda í nockr dægr. Sídan ſkal deig giora úr oſkunni, og þvo med því allteins og ſápa væri hin giorvazta. Med ſliku móti, ſem nú er ſagt, hagnyta Enſkir jurt þeſſa, og látum oſs fylgia ſporum þeirra í neſudri ſápugiord og ſápuþvotti, hvat Islandi er olldúngis ómiſſandi. Jurtin Filix Pteris vex og þar í landi, og á hún miog ſkyllt vid hina fyrri tegund.



## Siotta Grein.

## Um at lita Hatta.

### §. 1.

### Um at lita hatta úr biór.

Ef at fiolldi fólks á Islandi kynni at lita hatta, einkum vid ſiáfarſiduna, þar er hattarnir mæta ſvo miklum ſkémdum af illvidrum og ſió-ágángi, þat væri eigi at einsþarfligt, helldr og mikil ſémuna drýgindi; þviat eigi endiz hver vættar hattr lengi, ſé hon-

honum eingi sómi bodinn. Á Jótlandi hefir eg séd sjómenn þvo hatta sína fyrst úr volgu vatni, og sídan bursta þá upp úr bjór edr öli; urdu þá hattarnir svo svartir, sem vera skylldi, og flókinn nockru meirr þyrrinn enn ella.

§. 2.

Um at lita hatta med útlenzkum medølum.

Þau medøl, sem útlenzkir hagnýta sér, til þeß at lita hatta med, eru: 1) blátt Fernambúck-tré; 2) Gúmmí; 3) Gallepli; 4) Spansgræna; og 5) grænt Viktríl. Þegar nú máutligt er tekit af hverri þeßari tegund, svo sem til dæmis, af Fernambúck-trénu 10 pund, af Gúmmí 1 pund frekt, af galleplum og spansgrænu hálfu minna, og af Viktrílinu 2 merkur, þá er þetta allt sodit saman, og hottunum morgum í einu hleypt þar ofan í, og liggja þeir þar, til þeß at nógu svartir verda; en þó skal þeß ámillum draga þá upp úr leginum, og leggja þá aptr í hann, unz hann vinnr á hattana.

* * *
** ** **

Sjo-

# Siounda Grein.

## Um hagnýtíngu íslenzkra Beria.

### §. 1.

### Um nýtíngu adal-bláberia og bláberia.

Uti á Íslandi vex svo mikit af bláberium og adal-bláberium, at varla má atqveda; en at menn færi sér þau til nota sem byrjar, ætlar eg harla mikit ískorti. Rúsínur, Kórennur og Svedskiur, og annat kryddeorí, er tekit til at flytiaz til landins í ákafa; þar menn þó gæti átt þar heima í Jurtagördum sínum gnóglegt krydderí, hinu sambodit, er vardar svo miklum eyri. Jótar þurka bláber sín til vetrarforda, annathvert í bakstr-ofnum edr og í leirponnum, og brúka ber þessi þurkud á veturna í stadinn fyrir annat krydderí, þegar mikit á vid at hafa, bædi í saup-mat og med ödrum réttum, allt at einu sem þur kirsiber. Og at fylgia dæmi þeirra í slíku, væri Íslendingum stór hagnadr.

§. 2.

§. 2.

## Um krækiberia nýtíngu.

Þat er satt, at kræfiber í skyri eru munnmeti nógu gott, og má vera, at súra skyrit verdi vid ber þeßi heilnæmara enn ella; en eigi er þvílík nytsemd hin eingzta, sem hafa má af krækiberiunum; þvíat eg hefir vidverit, þar-er fólk hefir tínt fullar hledslur af krækiberium, sodit svo berin glæny í vatni, síat loginn í gégnum línklædi, og undit úr vandliga, en kastat hratinu burt. Svo hefir madr látit þenna berialög sióda at nýu, og blandat hann med tegund af vín-ediki, hellt svo leginum í flöskur edr brúsa, vel umbúna at ofan, og geymt svo loginn þángat til á hefir þurft at hallda. En vidvíkiandi nytsemd lagar þeßa í búnadinum, þá tilbúa menn af honum Idrepur (á Dönsku Dyppelse) at dýfa kioti og fiski í, til þeß at lóga því minna smiori enn ella, en láta þó stundum lítilfiorlegt af smiori og petrseliu, item lauk og odrum þeßkonar jurtum saman vid, og virdiz þetta miog liúffeng idrepa, en kostar þó miklu minna enn smiorit. Pontz kallaz dryckr sá, er berialogr þeßi er líka og af sumum vidhafdr, þegar ecki er kostr Citrónu-lagar, edr annars þeßkonar, sem slíku dryckblandi heyrir. Svo hefir eg og siálfr géfit naudþyrstum siúklingum log þennann

at drecka, og ordit var vid góda umbreyt-
ing.



# Attunda Grein.

## Um Blek-giord.

### §. 1.
### Um at giøra svart blek.

Eigi neitar eg því, at á fortubleki Íslend-
inga ser sæmilega vel, þegar þat er vel sod-
it, og nóg saman vid þat af fortulhyngs-leg-
inum, sem veitir blekinu þann ágvardada
styrkleika, ásamt nockrum súrum vokva, sem
er í fortunni siálfri, og svo framv. Eigi
helldr gét eg annat, enn hrósat Landum
mínum fyri þat, er þeir, án tilsagnar, hafa
siálfir hitt uppá, bædi at lita úr fortunni,
og líka svo tilbúa þeßhättar blek; hvat hvert
um sig er liós vottr til, at þeir eru eigi
fiarlægir því, helldr enn ødru gódu, at leika
vid náttúrunnar edli til hagnytingar sér og
sínum, og sizt þá, ef eigi skorti þeckinguna
edr sémuna-megnit. En þótt nú fortublekit
sé nógu gott, einkum til midr vandadrar
skript-

skriptar, þá er þó Súbstanzían, edr útlenzka blekit mun betra, hellzt þegar menn vilia vanda sig, og eitthvert skial skal rita til frambúdar, til dæmis, kaupmála-bref, jarda-skiol og annat þesskonar; hvíat Súbstanzunni bregdr eigi miog vid elling, en sortu-blekinu allt ofmiog, jafnvel þóat gott sé, þegar þat verdr elldra enn svo, at 50 árum gégni, hvat siá má af margskonar fornum íslenzkum skiolum. En góda Súbstanzíu má tilbúa á þennann hátt: 1) Tak til dæmis, 3 merkur af táhreinu vatni, 2 lód af blám Fernambúck-spónum, og 4 lód af bláum galleplum, edr 5 lód af þeim hvítu, siód þetta hálfa stund dags, sía svo hit þyckva frá enu þunna, og bæt þá vid 2 lódum af grænu viktrili, og 6 lódum af kirsiberia-qvodu eda gúmmí Lát þetta standa þar, sem hiti er nógr, freka viku (er kallaz Digestions-tíd), og hell svo leginum í blek-ílátin, sem vel megu byrgiaz at ofan; hvíat annars koma hvítar mærur í blekit, sem acidum aëreum velldr, þat er sýra sú, er í loptinu sveymar, og fáir einir á Íslandi vita kostu edr lesti á, sem at svo stoddu eigi helldr er heimtandi. 2) Sú onnur blekgiord ser fram á eptirsagdann hátt, hver mér þykir miklu audvelldari enn hinn fyrri, at svo miklu leiti sem eg hefi báda reynt. Tak til dæmis, 2 merkur gallepla, einn fiórdúng



punds af gúmmí (Tragacanth), og 2 merkur Víkrtíls, hvat alltsaman kostar 56 ß. at jøfnum sølum í Kaupmannahøfn. Lát þeßar tegundir vel muldar ofan í 4 potta af kolldu vatni, og bæt þar við lúku fullri af spønsku sallti, til þeß at varna hvítu mærunum, er setiaz vilia á blekløginn. At því búnu set brúsann med blekleginum í kullda í 8 daga, og hrær vel í dag hvern, og verdr þá blekit gnóglega svart. En eigi þat at skína, sem sumum þykir fallegt, jafnvel þótt blekit misßi þarvid krapt sinn at miklu leiti med ellinni, þá er tegund af hvítu sikri, borin í løginn, nóg til at verka þat. Hvat annars vidvíkr ábatanum á Súbstanzíunni, þá kostar hverr pottr af henni, at jofnum sølum í Kaupmannahøfn, 32 ß, eda 4 pottar 2 dali slétta í gángsilfri; en þá eg at fyrrsøgdum hætti giori siálfr blek, hefir eg allt eins góda 4 potta bleks fyrir hálfann ríkisdal og 8 ß. Þat er nægilegr ábati, og fer svo fram í fleiru; en ómakit tel eg einkisverdt.

§. 2.

## Um at giøra grænt blek.

Þær hinar gømlu Pergaments-bækur, allt framan til ennar 14 alldar, og sumar at þessari olld ofanverdri, vitna um, at Íslendingar hafa gløggliga borit skyn á, at tilbúa grænt

grænt blek til prýdis og fegurdar upphafs bókstafa sinna, og ella þegar eitthvat mark-verdugt vard fyrir. Þanninn hafa þeir og tilbúit raudt og blátt blek, en af hverium tegundum hvert um sig, vita menn eigi giorla. At hit rauda og græna blek, er varla verdr núit út af Pergaments-blodunum, at svo morgum hundrad árum frálidnum, hafi verit af gódum kostum búit, þat er sannliga audsætt; en því bláa bleki er mikln odruvís varit, sem hægt veitir at rekia dreg til, þegar farit er med varúd at gæta at hverskonar litar-tegunda edli og breytíngar-háttum. Þeir einir, sem rétt bera skyn á hinn chemiska lærdóm, vita af ollu þeßu, en adrir eigi. Annars er siálfsagt, at í þá gomlu raudu bókstafi er einskonar qvodu blandat, en eigi Kyrqvodu, þvíat hún glansar ávallt. Þat er og víst, at í þeim gamla rauda bókstafa-lit er eigi nockurskonar Menia; þvíat Menia eydiz af vatni einu, en hinir raudu trúfostu litir eigi í fl.ótleika. Nú á dogum er annars græna blekit þannig tilbúit: Madr tekr 3 lód af muldri spansgrænu, $1\frac{1}{2}$ lód af Cremor Tartari (þat er einskonar sallti, er læknarar tilbúa); lætr þetta sióda í einum pela vatz hálfa stund dags, og síar svo hit þyckva frá enu þunna, en hellir leginum á brúsa edr flosku, med tappa í, og vardveitir svo þángat til á þarf at hallda. Vili menn



tilbúa grasgrænt blek, þá má meinga í blekit dálitlu af Gúmmí Gútti, sem fæst á Læknisbúdinni í Nesi sydra, allt at einu sem flestallar adrar tegundir, er bæklingr þeßi umgétr.

## §. 3.

## Um at giøra raudt blek.

Fagurt og trúfast raudt blek er nú á døgum tilbúit þannig: Tak 1) 2 lód af raudum Fernambúck-spónum, edr Fernambúck-sagi, hvat ætíd er betra í allri litunar medferd helldr enn spænirnir siálfir; 2) 3 qvintín álúns; 3) 1 qvintín af hvítu sikri. Siód allt þetta, vel mulit, fiórdúng stundar, í einum pela vatz, og sía svo hit þyckva frá enu þunna, og geym svo loginn í pytlu med tappa í, þángat til á þarf at hallda. Raudt blek má og giora af einu qvintíni Flórentín-lacks, vel muldu, og nockrum dropum af Tonsku korn-brennuvíni (en eigi sikr-brennuvíni, þvíat í því er einskonar óíifian), item mola af hvítu sikri, og dálitlu af Gúmmí-vatni, og er þetta blek betra hinu fyrra. Á líkann hátt má tilbúa raudt blek úr Zinnóber, logdu í þvág í two daga, sem sídan er þvætt í brennuvíni, og mengat med Gúmmí- edr qvoduvatni og sikri; en hrista þarf ámillum ílát

þat,

þat, er lögrinn stendr í. Og virdiz þeßi hin seinazta atferd, framar hinum, at hafa brúkud verit af þeim gomlu rit meisturum.

§. 4.

## Um at giøra gult blek.

Tak fyri 2 skillínga Gúmmí Gúttí, þvætt qvodu þeßá sundr í brennuvíns dreytli, og lát svo løginn standa í blekflöskunni, þángat til þorf gioriz á at hallda.

§. 5.

## Um at giøra blátt blek.

Til þeßarar blekgiordar tekr madr, til dæmis, 1 qvintín áf Berlínar=bláma vel muldum, og hrærir hann saman vid dálitit brennuvín og Gúmmí= edr qvodu=vatn, ásamt tegund af hvítu sikri. Er þá blekit búit, og fer vel á; en eigi er þat at ollu leiti trúfast vid ellina; og eigi veit eg, af hveriu þeir gomlu hafa tilbúit bláa blekit.

§. 6.

## Um silfr= og gull=bleks giørd.

Tak 1 lód af qvikasilfri, og hrær þat saman vid litit af vín=ediki og kalki; set svo

 flösk=



floskuna med blendu þeßari í heitann sand, þángat til maukit er ordit jafnt. Má þá skrifa úr því, og líta bókstafirnir út sem silfr væri; en eigi þeir líkir at vera gulli, þá skal koma tegund af Saffrani í bleklog pennañ.



## Níunda Grein.

### Um at bleikia lín og ull edr ullar-vefnad.

---

### §. 1.

### Um at bleikia lín.

Þat virdiz miøg ábótavant, at Íslendíngar bleikia eigi lín eda lérept sitt sem adrar þiódir, edr at minzta kosti eigi svo almennt, þat eg tilveit. Af þeßu kémr þat, at nærklædi af líni, ítem trøf og línlok (jafnvel þótt hellz oftítit sé til af línlokunum á Íslandi, eins og ødrum gagnligum sængur-klædum, þar þó gnógt er til, bædi af dún og fidri) eru svo gul og grómtekin, at eigi gétr úr þeim gengit vid þvag né sápu eina. En á slíku mætti hægliga ráda bót, ef menn vildu, med þeßu móti: Tak vidar- edr birkiøsku,

oſku, og ſióð hana í vatni, en lát þó eigi oſkuna í pottinn fyrr enn vatnit ſyðr; en þá er lút þeßi nógliga ſoðin, þegar himna kémr eigi meirr ofan á loginn, þóat fleytt væri af með ſkél eðr ſpæni. Ámeðan lútin ſyðr, ſkal jafnliga hræra í henni, auſa ſiðan í kéralld, og þvo ſvo línklæðin og ſióða í því enu ſama. Síðan ſkolar maðr línit upp úr kölldu vatni, og breiðir á jorð út, um ſumardaga, ſnýr líninu þeß ámillum, og þvær einnig ſtundum upp úr kölldu vatni; og má þat liggia þannig undir bérum himni, þángat til ſkialla-hvítt er vorðit. Stríga og annat lín af þeßkonar tægi má ſióða með oſkunni, en aigæta ſamt vel, at hvergi nái við at brenna, og ſara ſiðan með, ſem áðr er umgétit. Þeßi atferð með línit varnar morgum hégóma og ſværum, ſem koma í þat af ſvita og oðrum tilburðum.

### §. 2.

### Um at bleikia ull og ullar-veſnað.

Eigi hefir eg nockurſtaðar ſéð ull eðr ullar-tægi bleikt, nema úti á Íslandi, og tel eg breytni þeßa Londum mínum til mikils gylld-is; man eg ennþá gérla, at þegar Faðir minn ſál. lét bleikia allann les-varníng ſinn og ſhyllu-giallð, item peiſur og ſmábands-ſocka, þá varð traudlega nockur hvít ſmyckia

ræk, nema ef nockut brast á skapnadinn, sem vandi var til hiá morgum at forngylldu; en fyri hvítar bleiktar smábanz-peisur feck hann jafnlega 8 edr 10 fiska meirr enn ella, og fyri smábanz-socka og fingra-vetlinga at því skapi. En eigi var onnur varúd vidhofd at bleikia enn sú, at lesit og ullin var látin liggia undir berum himni nótt og dag í 6 edr 7 vikur um Jóns-messu leiti, og hellt gridkona vord á nætur, en adrir skiptuz til at snúa um daga.



Re-

# Registr

edr

# Høfud-Inntak Bæklingsins.

## I. Kap. Um Indigó-lit.



## II. Kap. Um at lita raudt.



§. 2





III. Kap. Um gula litinn.



IV. Kap. Um at lita grænt.



V. Kap.

V. Kap. Um at lita lifraudt.



VI. Kap. Um at lita lín eda lérept.



VII. Kap. Um at lita Silki.





§. 10.

Önnur Grein. Um hunsa þvottar atferd.



Þridia Grein. Um fægingu Gulls og Silfurs, ꝛc.



Fiórda Grein. Um at fægia Látún Eyr og Tin.



Fimta Grein. Um Sápu-giørd.



Siøtta Grein. Um at lita Hatta.

